# ÁRDÍS

*Ársrit*
**BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA**

Verð: 60 CENT XVII HEFTI 1949

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

XVII. HEFTI

Ritstjórar:

MRS. INGIBJÖRG ÓLAFSSON, Selkirk, Man.
MRS. ÞJÓÐBJÖRG HENRICKSON, Winnipeg, Man.
MISS LILJA GUTTORMSSON, Winnipeg, Man.

Fjárhagsnefnd:

MRS. INGA GILLIES, Winnipeg, Man.
MRS. FLORA BENSON, Winnipeg, Man.
MRS. GUÐRÚN ERLENDSON, Arborg, Man.
MRS. SARAH CHILDERHOSE, Selkirk, Man.
MRS. ELIZABETH BJARNARSON, Langruth, Man.

WINNIPEG, 1949

# INNIHALD

# Inngangsorð

*Kæru lesendur mínir!*

Er ég nú lít framan í ykkur, gömlu og nýju kunningjana mína, þá er efst í huga mínum sú ósk að mega vera öflugur milliliður til þess að starfa að hugsjónum stofnanda míns, Bandalags Lúterskra Kvenna, sérstaklega þessari, „að efla samvinnu og vinskap á meðal kvenfélaganna innan hins Íslenzka Evangeliska Lúterska kirkjufélags í vestur heimi". Ég vil tengja saman hugi ykkar og hjörtu með ýmsu móti. Ég tilkynni ykkur málefni B. L. K., og úrlausn þeirra, ég kynni ykkur félagssystrum sem starfa og rita, og minnist þeirra sem látnar eru. Ég birti greinar og kvæði um háleitar hugsjónir þeirra sem setja markið hátt og stefna að því.

Mér dettur í hug orðtakið, „Sameinaðir stöndum vér en sundraðrir föllum vér". Vegna þess að meðlimir Bandalagsins eru sameinaðir, þá stendur það og hvert fyrirtæki þess, og myndar þannig sterkan hlekk í kristnu samfélagi. Þess fleiri sem bætast við í hópinn, þess kröftugri verður hlekkur sá, sem megnar þess meira að efla einingu í alheims, friðar, menningar og trúmálum.

Davíð segir í helgifaraljóði, í 133ja sálminum: —

*„Sjá hversu fagurt og yndislegt það er,*
*þegar bræður búa saman"* —
*„eins og Hermondögg,*
*er fellur niður á Zíonfjöll;*
*því að þar hefir Jahve boðið út blessun,*
*lífi að eilífu".*

Þar sem að sameining og einhugur ríkir, þar kemst hvorki ófriður né sundrung að. Þar sem að háar hugsjónir ríkja og fagrar hugsanir, þar kemst ekki að það sem er óverðugt okkar hugsunarkrafti.

Guð blessi ykkur, leiðbeini hugsunum og stefni áformum ykkar að sameiningu í kristnu starfi.

Ykkar einlæg,
ÁRDÍS — 1949.

# Kveðja til Bandalags lúterskra kvenna

**á þingi í Mikley, 1949.**

*Kæru félagssystur!*

Þegar maður lítur til baka yfir margra ára samvinnu, dvelur hugurinn eðlilega við það starf, sem liggur að baki, við draumana, sem hafa orðið að veruleik. Í þetta sinn kýs ég heldur að líta áfram og reyna að koma auga á alla þá möguleika, sem liggja fyrir framan okkur og felast í skauti framtíðarinnar.



**Mrs. Margaret Stephensen**

Það var einkennilegt að fyrsta hugsjón kvenfélags kvenna skyldi vera fyrir ellina. Hún getur oft verið svo þung byrði, sem legst á bæði hug og hjarta þeirra, sem einstæðir eru. Sú hugsjón hefir blessast og ég veit að Íslendingar sjá sóma sínum borgið hvað elliheimilið Betel snertir á komandi árum.

Svo er snúið við blaðsíðunni og þar sézt nýr draumur, ný hugsjón, sem starfar fyrir ungdóminn, — ungdóminn, sem á að taka við blysinu þegar þeir eldri leggja það niður. Látum okkur vinna af alhug að því að byggja upp verk Drottins fyrir ungdóminn okkar. Allir hafa eitthvað að leggja til; ef ekki peninga né vinnukrafta, þá uppörfandi orð, sem leggja lið málefninu. „Sá, sem ekki byggir upp, hann sundur dreyfir“. Það má ekki gleymast að þetta starf í sumarbúðum Bandalagsins er málefni Drottins, og að *það* er undirstaðan, sem byggt er ofan á. „Leyfið börnunum til mín að koma og bannið þeim það ekki“. — Því boði fylgjum við eftir beztu getu.

Mér er sagt að forsetinn okkar æski eftir hvíld; mér þykir

fyrir því, en skil vel að hún ber þunga byrði. Guð styðji hana og styrki til að vinna það sem kraftar leyfa, á meðan dagur er. Það stórfenglega starf, sem hún alla reiðu hefir innt af hendi, fáum við aldrei fullþakkað.

Og að endingu vil ég þakka fyrir mína hönd alla velvild mér auðsýnda yfir árin, sem kom sýnilega fram nú nýlega í samsæti, sem mér var haldið og hinni yndælu gjöf, sem mér var þá afhent. Perlurnar mínar munu minna mig ávalt á hinn hreina kærleika, sem er undirstaða fyrir samstarfi okkar kvenfélags kvenna. Hjartans þakkir.

Guð blessi þetta þing og alt, sem þar fer fram. Og Guðs blessun fylgi Mikley og kvenfélaginu og öllu þeirra starfi.

Gleymum aldrei þeim sporum, um þvera og endilanga nýlenduna, sem séra Jón og frú Lára Bjarnason stigu, er þau vitjuðu fólks á frumbýlingsárunum og færðu boðskapinn til einstæðra Íslendinga. Megi áframhald starfsins vera Guði til dýrðar og okkur til blessunar. — *Kærleikskveðja.*

MARGRÉT STEPHENSEN

   

*Þitt orð er, Guð, vort erfðafé,*
*þann arf vér beztan fengum.*
*Oss liðnum veit til lofs það sé,*
*að ljós við þess vér gengum.*
*Það hreystir hug í neyð:*
*það huggar sál í deyð.*
*Lát börn vor eftir oss*
*það erfa blessað hnoss.*
*O, gef það glatist engum.*

# Verksvið kvenna

*Erindi eftir Ingibjörgu J. Ólafsson, flutt á þingi Bandalags lúterskra kvenna 14. júní 1949*

Ein af stærstu gjöfum Guðs til mannanna barna er tækifærin til starfa. Hver einstaklingur er aðnjótandi þeirrar gjafar, tækifærin koma og fara framhjá ef þau eru ekki notuð; ný tækifæri koma aftur svo lífið allt getur orðið ein óþrjótandi starfstíð. Með hverjum nýjum degi kemur nýr styrkur að starfa, og allir ala þá von í brjósti að sá styrkur megi endast til daganna enda.

Verksviðin eru mörg og mismunandi. Mikil blessun mundi af því hljótast, ef hver einstaklingur fengi að starfa á því sviði þar sem hann nyti sín bezt, þar sem hæfileikarnir gætu komið í ljós, þar sem tækifæri væri gefið til að verða til sem mestrar blessunar.

Í þessu erindi vildi ég tala um *verksvið kvenna;* get þó aðeins snert við einum hluta þess víðtæka sviðs, sem konum er gefið tækifæri að starfa á. Starfssvið kvenna nú á dögum eru mörg og mismunandi. Heimilið er að sjálfsögðu þeirra stærsta og þýðingar mesta starfssvið. Sú kona, sem vanrækir skyldur sínar á því sviði getur ekki bætt upp fyrir það með neinu öðru starfi. Hafi Guð gefið henni heimilisreit til að rækta er skyldan fyrsta sú að rækta hann, á þeim tíma, sem gefinn er þar til uppskerutíminn er fyrir höndum. En allar konur hafa fundið til þess að það eru viss skilyrði nauðsynleg til þess að geta int af hendi þær skyldur sem vera ber. — Hún verður að leita inn á annað svið til þess að þroska anda sinn. Hún verður að gerast verkamaður í öðrum víngarði til þess að hún verði betur fær að leysa af hendi skyldur sínar sem sú er vaka vill yfir heill heimilis síns. — Það starfssvið er að finna í hinni kristnu kirkju. — Vildi ég því biðja ykkur sem eruð sameinaðar í starfi að íhuga með mér tækifærin, sem guð gefur konum til starfs á *starfssviði kvenna innan kirkjunnar.*

Leiðin hefir reynst seinfarin og erfið fyrir konuna að fá viðurkendan þann rétt að hún megi starfa óhindruð við hlið karlmannsins á hvaða starfssviði sem er. Aldirnar liðu hjá í öllum löndum sem menn bygðu án þess að réttur kvenna væri viðurkendur. — Karlmennirnir sem fyrir réðu sáu enga ástæðu til að breyta þessu.

Konurnar tóku þessu með þögn kynslóð eftir kynslóð og voru ánægðar með að slíta út kröftum sínum í skjóli og skugga eiginmanna sinna. Engin landslög né landsvenjur gátu þó meinað þeim að hafa sitt áhrifavald í kyrþey. — Áhrif kvenna hafa verið sterk og víðtæk þó blöð sögunnar segi fátt um slíkt. Stundum voru þau áhrif allt annað en bætandi. — Við játum það fúslega að bál ófriðar og misskilnings hafa geysað um mannanna bygðir í mörgum tilfellum fyrir áhrif kvenna. Í okkar eigin fornsögum könnumst við vel við mörg dæmi til að sanna það. Hildigunnur átti sinn stóra þátt í Njálsbrennu, Guðrún Ósvífsdóttir í því að Kjartan var veginn. — En hitt er satt að áhrif kvenna til góðs eru mikil. Í gegnum alla mannkynssöguna hafa þau verið djúp og undursamleg þar sem um göfugar konur er að ræða. — Endurtek ég því þá staðhæfingu að frá upphafi hefir áhrifavald kvenna verið sterkt afl á bak við framkvæmdir karlmanna áður en þær vöknuðu til meðvitundar um að þeim bæri jafnrétti á öllum sviðum og einnig síðar.

Mörgum okkar er það í minni þegar sá tími var að vitskertum karlmönnum og öllum konum var meinaður réttur til að greiða atkvæði. Við munum líka hvernig talað var um konurnar, sem börðust fyrir jafnrétti kvenna á því sviði. — Satt er það að stundum notuðu þær litla dómgreind í aðferðum sínum enda var um þær talað eins og þær sem voru „óalandi og óferjandi“. Loks var hin réttmæta krafa veitt. Frelsið í öllum löndum á ýmsum starfssviðum hefir aukist ár frá ári — á hinu veraldlega starfssviði stækkar sviðið árlega. — Konum er leyft að starfa við hlið karlmanna, þær sönnuðu og sýndu það á stríðsárunum að þeim varð engin skotaskuld úr að fylla stöður þeirra manna, sem fóru á vígvöll. Konan hefir tækifæri á því sviði að sýna hvað í henni býr. Hafi hún einbeittan vilja og hæfileika til að sækja fram er sigurinn vís. En því miður virðist einnig sem að nú sé opin og auðfær leið fyrir konuna að hrapa niður ekki síður en karlmennina. Kvenþjóðin þarf að vakna til meðvitundar um að frelsið er ekki einhlýtt, það frelsi sem getur orðið þeim sem fjötur um fót. — Konan verður að opna sál sína fyrir þeim áhrifum sem gefa henni þrek til að halda merkinu hátt — til að halda áfram upp á við og beita öllu sínu áhrifavaldi í þá átt. Þeir straumar liggja frá kirkju Krists sem vill breiða arma sína og býður starfssvið öllum þeim konum sem hún nær til.

Kirkjan breiðir armana á móti öllum sem koma vilja, hún kallar alla til starfs, konur sem karlmenn. Hún býður öllum sína hjálp og sinn styrk til starfa. En kirkja Krists á þessari jörðu er skipt í ýmsar kirkjudeildir, — sá tími er liðinn þegar eina félagsbandið, sem tengdi saman kristið fólk var elskan til Krists og þráin til að útbreiða kenningar hans á þessari jörð. — Hinar ýmsu deildir kristinnar kirkju, hafa sínar venjur, sín lög — menn sitja þar í valdasessi og semja sínar lagagreinar sem taka skuli til greina í starfsfyrirkomulagi þeirrar kirkjudeildar. — Það hefir ekki þótt viðeiga að hinar ýmsu kirkjudeildir væru of stórstígar í því að veita konum fullt frelsi til að starfa. En þær konur, sem elska kirkjuna, sem elska höfund hennar og þrá að starfa fyrir hana hafa fundið leið til starfa. Í mörgum tilfellum hafa þær myndað sín eigin starfssvið, sem þeim er ráðin hafa haft, hefir ekki þótt viðeiga að mótmæla. Nú er þó orðið mikið rýmra um en áður var á því sviði. Kaþólska kirkjan gefur kvenþjóð sinni mikið starf á ýmsum sviðum. Sameinaða kirkjan í Canada á nú fáeina kvenpresta. Konur prédika í Sáluhjálparhernum, í Hvítasunnufl. og í fleiri af hinum smærri kirkjudeildum. Biskupakirkjan enska hefir sitt kvendjáknastarf, það hefir einnig Lúterska kirkjan á síðari árum. Yfirleitt hefir okkar Lúterska kirkja verið sein að viðurkenna rétt kvenna. — Eða réttara sagt þeir menn, sem þar hafa ráðið hafa verið seinir til þess. Það eru ekki mörg Lútersk kirkjufélög, sem álíta það viðeigandi að konur sitji kirkjuþing sem fulltrúar safnaða. Okkar ísl. kirkjufélag mun vera eitt af mjög fáum sem leyfa það. Einn hinn virðulegi fulltrúi U.L.C.A., sem sat kirkjuþing okkar rak í roga stanz að sjá allar þessar konur sem þing sátu. Ekki vildi ég gera tilraun til að geta til um það hvort honum hefði verið kærara að lýsa þar yfir velþóknun eða vanþóknun á þessu fyrirbrigði! Sjálfsagt erum við allar á einu máli um að þar ættu konur að hafa jafnrétti við karlmenn.

Um leið og ég hrósa hinu Íslenzka lúterska kirkjufélagi fyrir þetta kemur mér í hug annað atriði. Á hinum fyrstu þingum Bandalags Lúterskra Kvenna var oft á það minnst hvenær sá tími mundi koma að við fengjum jafnrétti við samband unglingafélaga innan kirkjufélagsins, sem hafði verið veittur réttur til að senda tvo fulltrúa á kirkjuþing. Við kærðum okkur ekki um að setja inn beiðni þessu viðvíkjandi, en vorum svo ánægðar með okkur

sjálfar sem félagsheild að okkur fanst við ættum þetta skilið. Árin liðu, Bandalagið hafði starfað í 16 ár þegar okkur var leyft að senda tvo fulltrúa á kirkjuþing.

Nú er þetta alt breytt. Nú er þetta félag viðurkent sem einn sterkur hlekkur í þeirri keðju, sem kirkjufélagið myndar. Nú erum við orðnar fjölmennar og auðugar á veraldarvísu þar sem eignir okkar eru mörg þúsund dala virði. Þó treysti ég því að okkar mestu auðæfi liggi í áhuga og andlegu atgervi. Nú er jafnrétti okkar orðið á svo háu stigi að stundum hefir gætt misskilnings með það hver hafi byggt sumarbúðirnar. Sú frétt hefir borist okkur til eyrna að þær hafi verið byggðar af kirkjufélaginu og séu starfræktar af því. Þetta voru fréttir til þeirra, sem eru gangi málsins kunnugir frá byrjun! Einnig hef ég orðið vör við annan misskilning á þessu sviði, ég hef heyrt því fleygt fyrir að prestarnir væru „að vinna fyrir konurnar" þegar þeir eru að kenna í sumarbúðunum í fríi sínu á sumrin. Líka hef ég orðið vör við það að konum finnist í raun og veru sé alt þetta sumarbúðastarf unnið fyrir prestana. En þegar útsýnið skýrist finnum við og vitum að við erum ein sameinuð heild í hinni Lútersku kirkju, einn lítill partur af hinni stríðandi kirkju Krists á þessari jörðu og við þökkum fyrir að hafa eignast vítt og þýðingarmikið starfssvið þar sem rúm er fyrir alla að vinna saman.

Ég mintist á að Lúterska kirkjan hefði verið sein til að viðurkenna rétt kvenna. Þó gerðust þau stórtíðindi í fyrra að þrjár konur í Danmörku voru vígðar til prests í dönsku þjóðkirkjunni. En það fékkst ekki orðalaust, og enn hefðu þessar konur verið óvígðar ef danska kirkjan hefði ekki átt einn hugumstóran og víðsýnan biskup, sem framkvæmdi vígsluna þrátt fyrir mótmæli starfsbræðra hans. Einnig bauð hann þessum konum starfssvið innan síns biskupsdæmis og kvaðst fús til að taka það í ábyrgð sína að þær væru hæfar til að takast á hendur þetta þýðingarmikla starf. — Rit hinnar Lútersku kirkju og önnur rit hafa rætt þetta beggja megin hafsins. Þegar maður les finnur maður hina sterku andúð gegn þessu — þeim virðist það mörgum hin mesta óhæfa að kona sé prestur. — Þó megum við vera vissar um að sá tími kemur í hinni Lútersku kirkju og í öllum kirkjudeildum að þeir, sem völdin hafa, dirfast ekki að neita því að hver sem Guð kallar til starfs á þessu sviði hefir rétt til þess hvort sem það er karl eða

kona. Skuggi hefir oft fallið á hið virðulega prestsembætti þó það hafi aðeins verið skipað af karlmönnum. — Skuggi mannlegs ófullkomleika fellur á alla viðleitni til starfs þegar sú viðleitni er borin saman við það sem fullkomnað er. —

En konur sækja fram í hinni Lútersku kirkju til starfa á ýmsum sviðum, sem sunnudagaskólakennarar, sem trúboðar, sem hjúkrunarkonur, sem kvendjáknar, starfskonur í kirkjulegum félögum, þær munu reynast verðugar til að fylla hvert það sæti, sem Guð kallar þær til að skipa.

Þegar við hugsum um þessa baráttu og erfiðleika í framsókn kvenna á liðnum og yfirstandandi tímum er gott að hverfa í anda þangað sem Kristur gekk á vegum mannlegs lífs fyrir nærfellt tvö þúsund árum: Konurnar færðu til hans börn sín að hann mætti blessa þau — og lærisveinarnir ávítuðu þær.

— Og Jesús sagði við þá, *„bannið þeim það ekki“*. Í húsi Símonar, hins hrokafulla Farisea, er konan ásökuð fyrir að brjóta alabasturs buðk með dýrindis smyrslum yfir höfði Jesú. — „Símon ég hef nokkuð að segja þér“, segir hann. — „Sá sem mikið elskar er mikið fyrirgefið — sá sem lítið elskar er lítið fyrirgefið“. Við sjáum hina sjúku konu snerta klæðafald hans og verða heilbrigða. Við heyrum hann segja: „Sá yðar sem er syndlaus kasti fyrsta steininum“, þegar grýta átti hina seku konu. Við Jakobsbrunn heyrum við hann útskýra djúpa leyndardóma fyrir hinni samversku konu. Við syrgjandi ekkjuna segir hann, „grát þú ekki“. Við hina kanversku konu, segir hann: „Mikil er trú þín, kona“. Við konu er hann að tala þegar hann segir hin dýrmætu huggunarorð, sem lesin eru við hverja opna gröf: *„Ég er upprisan og lífið“*. Konurnar stóðu eftir við krossinn þegar aðrir höfðu flúið. — Að gröfinni komu þær þegar aðrir sváfu. — Þetta er undursamlegur aflgjafi fyrir konur allra alda. Kristur skildi hjartað — hann viðurkendi hverja viðleitni kvenna til starfs — þeirra kvenna, sem *völdu sér hið góða hlutskipti* eins og María gerði. Þetta er hin dýrmæta arfleifð, sem fallið hefir í skaut hverrar kristinnar konu.

Dagurinn í dag (þegar ég er að skrifa þetta) er 6. júní — og ég minnist þessa dags fyrir 5 árum. Dagana áður hafði allur heimurinn beðið með ugg og ótta. Hin stórkostlega árás inn á meginland Evrópu var fyrir dyrum. Árásin sem meinti sigur eða ósigur — sem meinti líf eða dauða. Að morgni þess 6. júní færði

útvarpið þessa örlagaþrungnu frétt að í dögun þann dag hefði árásin verið hafin. Þúsundir kvenna vissu að þátttakendurnir voru eiginmenn þeirra, elskhugar, bræður eða synir. — Fegurðin, friðurinn og vorblíðan, sem umkringdi okkur í þessari álfu þann fagra morgun þrýsti inn í hugan þeirri hugsun að guð friðarins vekti yfir drengjunum okkar. — Í heimabæ mínum (Selkirk) barst hljómur frá kirkjuklukkum bæjarins kl. 10 að morgni. Sá hljómur flutti sérstakan boðskap til þeirra, sem sérstaklega þurftu á styrk að halda. Fólk yfirgaf störf sín og streymdi hver til sinnar kirkju. — Það var undrakraftur í íslenzku sálmunum okkar þann morgun. — *Drottinn minn guð, þú ert bjarg mitt og borg — Á hendur fel þú honum.* Eftir sameiginlega bænarstund hélt fólk heim til að taka upp störfin á ný, handtökin voru þögul og hlý.

Hinn svonefndi D. Day er hjá liðinn fyrir 5 árum — ófriðnum á orustuvöllunum er lokið, en ennþá er margt sem sigra þarf. Enn eru hinir ungu staddir á hættulegum stöðum. — Ennþá virðist alt leika á reiðiskjálfi. Og ennþá berst hljómur frá kirkjuklukkum. — Kirkjan kallar! Hún kallar ekki aðeins til sameiginlegra bæna heldur einnig til sameiginlegs starfs. Verksviðin eru mörg. Mættu allar kristnar konur skipa sér í fylkingu til starfa ákveðnar og öruggar. Megi þær allar eiga þá fullvissu að guð friðarins vakir yfir framtíðinni. Megi þeim auðnast að halda merkinu hátt og byggja á traustum grundvelli fyrir hina komandi kynslóð.



— Og okkur dreymdi drauma um æðri mátt, um konung konunganna, sem komi bráðum — og beri sannleikanum vitni og gæti lesið leyndar hugrenningar og elskaði þá, sem aðrir fyrirlíta. Við bíðum þín, sem boðar líf og frelsi:

Velkominn, velkominn til Jerúsalemborgar Jesús frá Nazaret.

*David Stefanson*

# A Visit to Nawakwa

**By Thjóðbjörg Henrickson**

It is my pleasure and duty to bring to you a report of my visit to the Lutheran Leadership Training Camp in Pennsylvania, near Gettysburg.

As you already know, I was asked, at our last convention, to go to this camp to observe methods, especially of administration. This was done in answer to an invitation sent through the president of our Synod to the executive of Sunrise Lutheran Leadership Camp from the U.L.C.A. Parish and Church Schoolboard in Philadelphia.

Early in July of last summer I left Winnipeg by train for Philadelphia. Thinking this camp was only a stone's throw from that city, I found, when I reached Philadelphia, that I had gone a hundred miles farther than I should have done. I was not sorry about that as it gave me an opportunity to meet some of the members of the Lutheran Parish and Church School Board at their headquarters.

The following day I retraced my steps and travelled by bus to Gettysburg. As you know, Gettysburg is a very historical spot—where some of the last decisive battles were fiercly fought between the northern and southern states—where families were so divided on the subject of slaves and their rights to freedom that brother met brother in battle. These skirmishes and battle lasted for three days on these grounds—July 1, 2, and 3 in 1863.

In a visit I made that same week to this place, I walked across a wide strip of green that had at that time been a wheat field, where 1,200 men were mown down by those that hid behind boulders on the opposite hillside.

It is interesting to know that the Gettysburg Lutheran Seminary, established years before this—in 1826— served as a hospital and housed over a thousand dying and wounded soldiers of both sides, in those last days of the American Civil War.

Every state represented at that battle ground, has erected memorial monuments and statues, depicting the story of this tragic battle as it was so grimly fought to its bitter end. These monuments are works of art and scattered over the huge area, dedicated as sacred ground and beautifully kept.

This was one of the few public places I visited, where you could not see a hot-dog stand or a souvenir shop. These could be found a half-mile away, in the town of Gettysburg where thousands of tourists pass through each season to pay their respects to this sacred memorial park.

From Gettysburg I drove the fifteen miles to Camp Nawakwa in the camp truck, driven by a very interesting young man, Ira Wilson, a student from Gettysburg Lutheran Seminary. He told me he was helping to earn his way through school by working in the kitchen of this camp for three months each summer. He said he had begun as one of the ground crew—clearing trees away, picking up stones, burning deadwood, making roads and paths etc.; later, washing dishes and floors—and now he had risen to the exalted position of assistant chef. Later I found he was a very versatile young man—he was the bugler that wakened the camp in the early morning and put it to bed at night. He also led the kitchen choral group in song, heard so often while meals were being prepared.

This same group, comprising four young men and six girls (all students) entertained in the dining room during meals, a couple of times while I was there. They really could harmonize and there was much laughter and applause over some of their comical song arrangements.

Camp Nawakwa has functioned as a leadership training camp for some years. It actually has been in operation for twenty years, but I was told it took fully 5 years to get into action as a leadership training camp. I imagine they fumbled about and little by little found ways and methods from year to year. Always looking for methods of improvement in every phase of camp administration, just as other camps have had to do in their beginnings. Their executive must have realized how much there is to learn and how that can only be accomplished by experience from year to year.

---

Nawakwa is an Indian name for "Deep in the woods". Camp Nawakwa is indeed deep in the woods of a thickly wooded tract of land situated on a hillside of what is called South Mountain, in the State of Pennsylvania. One hundred and fifteen acres of trees of all kinds, flowers and ferns, mountain springs and brooks and fruit orchards compose this camp site. Old trees and young saplings are everywhere and the natural, wild, rustic appearance has been retained as much as possible. Clearances have been made only

where it was strictly necessary for building sites, for sports grounds, for the pool and for roads.

The buildings in this camp are scattered and yet arranged to meet their particular needs. Twenty-eight dormitories as well as a hospital hut, are well in the woods and apart from the other buildings. Each dormitory can house ten campers and a leader. Behind these dormitories are two roomy shower buildings, each having six cubicles with showers. The instructors have splendid accommodation in six well furnished lodges, with all conveniences.

The Dining Hall, Assembly Hall, Office and Library with reading room, are large, and completely equipped for the uses intended for each.

A canteen is attached to the office building, and serves postage stamps, post cards, chocolate bars, stationery and other supplies needed, to campers at moderate prices.

Water is supplied from ten natural springs coming from hills round about, and forming clear brooks and rivulets. These have all been made use of and are combined into a deep stream flowing into, and through, the fine swimming pool there.

Water is led into all buildings and each dormitory has its own lavatory and wash bowl with hot and cold water.

The large building housing the library, reading room and the two arts and craft rooms is particularly interesting. One corner of this building is made of stone with iron roof and doors—absolutely fireproof. Here is a splendid reference library used by students. A wide iron shutter rests on a counter, opening into the reading room. This is open in the afternoons and the reading room is presided over by the camp librarian, always at hand to advise and assist students in their studies. The reading room is large and airy, fitted with long, heavy tables and lighted with fluorescent lights. A huge fireplace is at one end. At the side of this room are two rooms fitted for arts and crafts taught by trained instructors. Campers can make various articles to take home as souvenirs of their stay in camp. Leather work, metal and gimp work, bead, pebble and shell work, are taught there and materials supplied at low cost. The other room is devoted entirely to ceramics (clay modelling) with a kiln that can produce a thousand degrees of heat and turn out beautiful glazed pottery, flowers in bowls or on pins, tall slender vases, candle sticks, bowls and lovely figures of all kinds. I was amazed at the results produced by these young people, many who had only these two weeks each year to participate

in this kind of work. The motto above each door of these two rooms reads: "What is worth doing at all, is worth doing well".

There are many other places of interest in this fine camp.

The Fountain, situated in the centre of camp, is a work of art. Cold, clear water flows into a large bowl giving a tinkling sound as of little fine bells, day and night.

The Tryst is a small walled-in enclosure with a stone bench circling within—a grand secluded spot to meet one or two friends in camp and visit without interruption.

Upper Temple is the out-of-door place of worship—on a hillside, overlooking a beautiful panorama of nature in all its glory and facing the western sky in awesome beauty of a setting sun.

Council Circle is similar in construction to Upper Temple, well apart from the active centre of camp and situated in the deepest woods. A small clearing with three tiers of stone seats surrounded by a stone wall forming the top tier. In the centre is a large stone basin or bowl where bonfires can be made. This Council Circle is the meeting place for the Nawakwa Fellowship and for the many entertainments put on at night after Hillside Evening Service.

The most sacred spot in camp is about a quarter of a mile from its centre, also in the woods. A large stone altar and cross, a woodland sanctuary in a small clearing dotted with wild flowers and ferns and encircled by tall old trees. This spot is dedicated to the memory of the Camp's Founder, Dr. Hadwin Fischer. This out-door chapel is designed for personal meditation and prayer, rather than for large assemblies.

The white flint stone found on the camp grounds has been gathered and used to an advantage in all these favorite spots.

Provision is made for all games— fields for base ball, volley ball, foot ball and basket ball, four tennis courts, a badminton court, a cement floor for shuffleboard and a large swimming pool. A swimming instructor is there to help campers learn to swim, improve strokes or become better divers.

The camp is served with electricity. All buildings and roads are well lit. The pool is bright with flood lights until Ira Wilson blows the bugle for Taps. In a short time all lights are out but those, at the fountain, along the roads and in front of each building. These are kept lit all night.

This, then, is Camp Nawakwa and with all its buildings and equipment would be of little value or of any great use were it not for the fine, wholesome spirit of friendliness, helpfulness and joy that prevails, and produced by the attitude of those within this

camp. The very friendly and efficient Director, Rev. Berkheimer, the Councillors, Instructors, and Dining Hall Crew and the wholehearted participation of enthusiastic campers, create a spirit of good fellowship that permeates the very air throughout the camp.

---

May I briefly outline the reason for this camp and how it came into being. You may find some similarity to the reasons for, and the beginning of our own Sunrise Lutheran Camp at Husavik.

Dr. Hadwin Fischer, a Lutheran minister from our U.L.C.A. had, in some of his earlier pastorate years, served in rural districts and in smaller towns. In those years he, like many other ministers, struggled with general inefficiency and the great lack of adequate leadership in Church and Sunday School. He did much to remedy this in his parishes, but oft times was discouraged over the results of his labors. He tried various methods of training workers and imbueing them with enthusiasm and as he labored he gradually gained a vision of a camp, where, with the aid of God's glorious out-of-doors, he could gather people (young and old) together and by religious instruction, fire them with a desire for service and make them more efficient workers in their respective parishes.

The idea of camps (especially church camps) was in its infancy and he met a great deal of apathy and oft times opposition from his parishioners. Year by year this vision became clearer and he was able to transmit his ideas to others, who soon became his co-workers. Thus a site was found and the experiment begun.

I do not propose to outline the story of this splendid camp from its beginning, twenty years ago. Suffice to say it was indeed a venture in faith, a desire to serve God and Dr. Hadwin Fischer's vision has been made a reality. Today, through years of unabated enthusiasm, unstinting service and generous giving, Camp Nawakwa in its aims and purposes, stands as a memorial to a Christian's dream.

The three great aims of this camp are: 1st—to discover ability for leadership; 2nd—to train leadership; and 3rd—to link leadership with the local church.

This immediately shows that the camp is not an end in itself, but a means to better Christian living, through the vital religious training received by these children, youth and adults, and the results of this instruction carried into the many communities represented by the camp enrollment.

The possibilities of leadership qualities are boundless and every person everywhere has greater possibilities than those

discovered or developed in himself. At Nawakwa, in numerous classes specializing in the science and technique of leadership, many interesting discoveries are made, discoveries of what leaders are and can become. Then after all too short a camp period, these people, young and old, go to put into practise in church activities, the many ideas learned at camp.

In addition to group study and group discussions, a personal element weaves through the student's life in camp, which leads to the realization of leadership qualifications. Here is where a group leader can do much for his camper. Through personal acquaintance and friendships established, the students are led to reveal their thoughts re the more serious side of life, and the leader is able to find access for advice and suggestion, for in all cases the adolescent is confused and needs kindly guidance. This may lead to individual or group discussions of life's ambitions and characteristics needed to achieve these ambitions. Desirable or undesirable traits of character are revealed and thus the leader is given the road to follow for wise and true guidance of those placed in his or her care.

It is impossible to measure the results of good group leadership in camp but I was told that many have declared in later years, that through wise camp leaders and kindly advice, they found a fuller way of living and learned the joy of service to their church and community.

This camp was established for a very serious purpose. Permit me to quote a statement of Dr. Hadwin Fischer, the founder of this camp: "Since its founding, Nawakwa is a camp of the church. It aims to discover leadership, to train leadership and to link leadership to the church. It asks the church to select its campers and students carefully and aims to give them that training which will lead to intelligent co-operation when these people return home to their communities and to their churches".

The camp's program, while differing from the average camps, because of the spiritual emphasis, is brimful of variety, combining spiritual training and recreation, to the greatest advantage.

To show how this combination of human needs is carried throughout their program, may I give you a brief synopsis of one day in this camp.

At the stroke of seven our friend the bugler sounds the reveille and ends his call with some popular air. This being a clear sunshiny morning he plays the well known popular song: "Oh, what a beautiful morning, Oh, what a beautiful day". We rise from a restful night with that thought in mind, and the sun smiles in á

blue sky with a light breeze passing gently through the grand old trees, that have seen many a such morning.

Boys of all sizes, from fifteen to their early twenties can be seen rushing in their bathing suits, down to the pool for an early dip. Others are running to where the flag pole is, to raise the flag for the day, with a salute and a recital of the pledge to their beloved country.

Then come the setting up exercises for all, conducted by their recreation director.

Back to their cabins they hurry to dress and tidy up. Some get sweeping done before the bell rings for Morning Watch. This is a ten-minute period of devotions; first in the cabin, led by their leader—a prayer and a scripture reading—and then followed by individual lesson study set for that day. For this individual study the boys go to their favorite spot near the cabin—a mossy stone, or under a tree, or lying prone on the green grass. Silence reigns over the camp for this period.

The breakfast bell rings and what a scramble from all directions to the dining hall, filling the air with shouts and talk from these two hundred and eighty-seven boys. Each boy knows his tribe's allotted tables, Director Berkheimer blows his whistle and instantly there is silence. He calls on some one (a young minister or an instructor or a young boy) to say a prayer. Breakfast is served and then the fun begins. At first the boys are too busy consuming porridge, cereal, toast, apple-butter, cocoa and milk, to do much talking but soon the first pangs of hunger have been satisfied and the noise gradually increases. At a table in the corner a song begins and soon the whole crowd has joined in. Then two groups may try to out-drown each other in two different songs. When the noise seems to be out of hand, the whistle is sounded and all quietens for a while.

Entrance into and departure from the dining hall is at all times done in an orderly manner, each tribe leaving when called by the camp director.

Duty period now begins and a great deal of sweeping and tidying is done in cabins, on the grounds and in the larger buildings. All these duties are allotted to tribes and cabin groups. All must be in order when the inspectors arrive, while classes are in session. Three inspectors are chosen each day from instructors not occupied at that time.

The bell for classes rings all too soon and once more all is quiet. Classes continue for two half-hour periods and then a twenty-

minute break, when they gather in the assembly hall to sing songs new and old and learn new ones as taught by the music director. The three inspectors, for that day, present their report in some unique manner—a skit or a ventriloquist reports through his dummy, or there is a rummage sale of articles found lying about. These reports are received with hilarity and yet with a certain amount of anxiety as each cabin group is anxious to attain all credit points possible while in camp. This gathering finishes with songs and camp yells.

Again the bell rings for classes and another two half-hour periods of religious instruction.

The same meal routine repeats itself when dinner comes around, except there may be greater noise and more hilarious doings, with many of the instructors and leaders doing stunts. This may be a harmony quartette led by their cabin leader or a comic song by an instructor. One outstanding act was performed by a group leader, a minister. He cleared a spot on our table where he stood to do a clever balancing act with canes and dishes. You can imagine how much the boys appreciated such a performance. When things became a bit too noisy the whistle could produce absolute silence.

The canteen is particularly popular for post cards, etc. It is open for ten minutes after each meal.

It was unbelievable how the office bell could perform miracles. One minute the grounds would be swarming with noisy boys, and the next minute the whole camp would seem deserted. This, of course, was the rest period. Some would rest in their cabins, others would go to the reading room to write letters or study, and many could be seen working at their models in the art and craft rooms.

In a half hour the bell proclaimed the end of rest-period and time was now their own for extra study — letter writing, sun bathing, tennis, swimming, baseball or any other form of recreation, stamp collecting or exchanging, photography, nature study in groups, or boys in the field developing muscular skills and team spirit of co-operation and good sportsmanship. And always the leaders were nearby to assist and advise when needed.

Following the evening meal, preparation was made for the daily evening service, by those taking part.

Then came the inspirational highlight of the day — Hillside Service. This name was given to the evening service because, in the early days of camp this service was always conducted on the hillside at Upper Temple when weather permitted. This custom

continues but can be changed to any other spot in camp—on the athletic grounds, or at Council Circle or beside the pool or in some wild spot in the woods. No matter where this daily evening service is held, the routine is the same. Part of the hike is free and easy with conversation and singing, but the last approach is made in reverent silence. A cabin group may be in charge of the service and the boys have made careful preparation in the choice of hymns, in prayers and in the scripture readings. The short message is usually delivered by a divinity student or a minister. As the service progresses the sun sinks slowly out of sight, behind the hills. Then with daylight fading, the day draws peacefully to a close and God seems very near to each one of us.

Back to camp, through the shadowy woods, the evening activities begin. These might be a treasure hunt, a play given by a cabin group or a bonfire party. Whatever it is, there is much laughter and jollity.

Soon Taps are heard from Ira Wilson's bugle and the fun is over. Only minutes to get ready for bed—a short devotional service in each cabin led by their group leader—this may be Bible reading or a hymn sung, poetry read and a prayer—all binding together this small group as one family.

So ends a day at Nawakwa—one of many such days and every day filled with interest and happiness—a day full of contrasts—play and study — rest and activity — uproarious noises and deep silences — and a knowledge of God's love and goodness weaving into every hour.

The cabin lights go out, one by one, and soon the silence of night rules over all.

---

I leave you to judge if such a camp as this is not actively engaged in Home Mission Work. You will agree that to help mould character and, through God's Love, implant in the young heart a desire to serve Him by word and deed is Home Mission Work in its highest form.

Surely results must show from such training as this for the sixteen hundred young people who pass through this experience each summer.

---

Three years ago the Lutheran Women's League opened a camp with this same purpose and with these same aims in mind. It is only with the enthusiastic help of many, that this camp can thrive and realize this purpose and these aims. Our camp executive

is convinced that this can be achieved through sincere co-operation.

Camp Nawakwa was blessed with earnest, Christian workers, giving unstinted aid and service in their first difficult years; so have we, noble, earnest Christians, within our Icelandic churches, anxious to see the future of our faith safeguarded by training our youth in the Christian way of living.

Through wholehearted and enthusiastic co-operation of all our Lutheran friends, this can be done and Sunrise Lutheran Camp can be made into a model Leadership Training Camp for all our people. It isn't only money, but also willing, voluntary personal service that can achieve this goal.

This camp of ours, situated on the shores of Lake Winnipeg and within the area where our early pioneers first settled in Manitoba, can and will become a fitting monument to their courage and sacrifices.

God grant that this Youths' Camp, Sunrise Lutheran Camp, may develop in all the ideals planned for it and strengthen, in young and old, a desire to serve in our Lord's Work, and through these results, give reverent, spiritual dignity to our Lutheran Church.



*Lærdómstími æfin er*
*ó, minn Drottinn veit ég geti*
*numið alt, sem þóknast þér*
*þína speki dýrast meti:*
*Gef ég sannleiks gulli safni*
*gef í vizku og náð ég dafni.*

# Hvernig getur konan bezt styrkt heimsfriðinn

**Erindi eftir Mrs. Rannveigu K. G. Sigbjörnsson**

(Framhald frá síðasta hefti Árdísar)

Heimilið er stórkostlegt ríki og því meir sem konan og maðurinn geta lagt í það, að viðhalda þar sönnum friði og hamingju, því meir styrkja þau friðinn útá við auk þess sem þau auka hamingju sína. Foreldrar auka sína eigin hamingju með því að sýna börnum sínum samúð og samhygð í því sem barninu finst vera vandamál. Eitt af stóru spursmálunum gagnvart börnum, er þolinmæði foreldrisins. Gefa þeim alla þá vel stemdu mentun, sem þau mögulega getá og sem kraftar barnsins og eðli útheimtar. Nothæf mentun til munns og handa, er lífsvopn vaxandi únglings. Um leið og barninu er innrætt prýðileg framkoma í daglega lífinu, þá er nauðsyn að innræta því samhygð með málleysingjunum ekki síður en mönnunum. Vekja athygli þeirra á því að málið var gefið þeim til þess, meðal annars, að tala máli þeirra, sem ekki geta talað. Bæði ábyrgð og yfirburðir fram yfir málleysingjann, felast í málinu. Minnumst ávalt þessara orða: Lífið er dýrmæt gjöf Drottins og til þess ætlað að vér verjum því Guði til dýrðar og mönnum til gagns og til þess að undirbúa sjálfa oss undir æðra líf. Mig minnir að þessi grein væri í Helga kverinu. Hún virðist vera nokkuð góð enn. Foreldrar geta ekkert gert betra fyrir börn sín en að upplýsa þau í Guðs orði og dygðanna vegi, á heimilinu og viðhalda kirkjunni- ákveðinni trúarjátningar kirkju með Sakramentunum, sem Drottinn skildi oss eftir.

Börnin í dag, eru borgarar ríkisins á morgunn, og ef „Drottinn byggir ekki húsið, þá erfiða smiðirnir til einkis.“ Þetta gildir um höll og hreysi.

Stundum er það, að konan þarf að fara frá heimilinu að vinna og það er oft að hún getur alls ekki fylt pláss sitt vel. Ef hún er sönn móðir, þá má vel fara ef börnin tapa ekki við það; en krefji nauðsyn, þá er ekki til neins að tala um það. En það er mikill skaði þegar svo ber undir.

Enn er eitt atriði, sem hvert foreldri ætti að innræta barninu. Það er djúpa virðingu fyrir borgara réttinum. Þegar ég lít yfir þau

atríðin, sem hafa orðið á vegi minum bæði af eigin reynslu og við kynningu við annara reynslu, þá finst mér borgara rétturinn, það er verðmæti hinna dýpstu og dýrustu mannréttinda, vera eitt mesta verðmæti þessarar jarðar. Það hafa komið fyrir þau augnblik, að mér hefir fundist hann ganga næst sáluhjálpinni

Ég hefi séð fult hús af unglingum, allir fyrir innan fermingu og jafnvel þeir daufgerðustu höfðu rjóðar kinnar og bálandi augu, er kosningar voru á seyði, af áhuga fyrir því hver kæmist að.

Hin myndin er ungur maður sem tekið hefir á sig ábyrgð hjónabands og heimilis, hann bregður sér ekkert þó honum sér sagt, að nú sé búið að svifta hann atkvæðisrétti á vissu svæði. „Eg botna bara ekkert í slíku", verður honum að orði og hann er eins rólegur og ekkert hafi í skorist.

Eg vona að það komi aldrei fyrir hjá mönnum af íslenzku bergi brotnu, að þeir viti ekki um það, lögaldra, kvæntir heimilisfeður, hvort þeir hafi atkvæðisrétt eða ekki.

Mannréttindin rista miklu dýpra í sál mannsins, en maður gerir sér grein fyrir í daglegu lífi, og vel má það vera, að sami maður sem ekkert veit um atkvæðisrétt sinn, ef hann stæði andspænis og nógu nærri þeim virkileik, að hann hefði verið sviftur því, þá þykir mér trúlegt að hann hefði vaknað eða raknað við.

Þegar frú Margrét Jónsdóttir Benediktsson setti á stofn og gaf út kvennréttindablaðið, „Freyju," með hjálp manns sins hr. Sigfúsar B. Benediktssonar, minnist ég þess að ég sá af tilviljun tvö blöð minnast blaðsins, bæði gerðu það á mjög drengilegan hátt. Annað var Sameiningin í ritstjórnartíð Dr. Jóns Bjarnasonar, hitt var stórblaðið Free Press, í ritstjórnartíð Dr. Dafoe. Báðir mennirnir hafa skilið það, að á bak við litla blaðið, hjá fátæku fólki, var stórt mál.

Þökk og heiður sé Margréti og manni hennar fyrir baráttuna fyrir athygli þessa máls.

Ef um það ræðir að konan leggi af mörkum til lífsins utan heimilisins, þá, ef hún er vel hugsandi kona, mun hún gera það eftir megni, með tilliti til heimilishagsins. Eg fyrir mitt leyti, er innilega þakklát mörgum konum, sem hafa lagt mikið til lífsins einnig utan heimilisins. Hvað sem það kann að hafa kostað þær, þá hafa þær lagt svo mikinn og stórann skerf til lausnar konunni úr heimskulegum viðjum og þar með útbreitt byrtuna yfir heiminum. Þær standa í sérstakri fylkingu. Fjarska oft hafa þær staðið einar.

Konan hefir aldrei verið betur mentuð en nú; haft meira frelsi né svigrúm á heimssviðinu en einmitt nú. Það er fyrst og fremst kirkjunni að þakka, svo því fólki sem starfað hefir og starfar að viðhaldi hennar, síðan þeim konum og körlum, sem unnið hafa að þessari miklu lausn. En vandi fylgir vegsemd hverri og það er um að gera, að muna það ávalt að trúin og siðgæðið, er áttavitar, sem aldrei má sleppa af hafskipinu mikla: Lífsfleyinu.

Hafðu Guð í huga og minni,
Hafðu Guð fyrir augum þér,
Hugsaðu um Guð í hverju sinni,
Heyrir Guð og til þín sér,
Virtu Guð í valdstjórn þinni
Og vittu að hann þinn herra er.

Svo ætla ég að segja ykkur dálitla sögu að endingu. Hún er ekki löng og ég býst ekki við að hún komist inná leikhúsin.

Fremsti bærinn í Syðradal, í Bolungarvík, Ísafjarðarsýslu, á Íslandi, heitir Gil.

Gil stendur vestanvert í dalnum og er umkringt fjöllum á þrjá vegu. Margir búendur hafa búið þarna. Hvort þar er nokkur nú veit ég ekki.

Um miðja nítjándu öld, bjuggu þar hjón Halldór og Margrét að nafni. Þau þóttu bæði vænar manneskjur.

Einu sinni stóð til kirkjuferð á Gili. Fimm ára dreng langaði mikið til kirkjunnar. Ekki hefir vakið fyrir dregnum neitt annað en til breytingarlöngun. Það hefir á þeim árum og á þessum stað, ekki verið neitt um skemtanir annað en það sem börn gátu leikið sér heima fyrir eða þá að fá að fara með fullorðna fólkinu í dálítið ferðalag. Kirkjuferð hefir líklega verið nærri því það eina, sem kom til greina. Drenginn langaði sárlega til að fara, en- hann átti engar spari buxur. Maður heyrði að börnin hefðu verið um fjórtán að tölu og engin saumamaskína til- hafði bókstaflega ekki komið í héraðið. Sumar konur myndu nú kanske telja það rétt, að segja drengnum að hætta að skæla og steinþegja, sitja heima og horfa í kring og tala við hin börnin. Drengurinn vissi um hvað til var að skemta sér við heima, það var alt þaulreynt. Hann langaði til að kanna nýja stigu, sjá ljósahjálm, heyra mikinn söng, sjá mann í fallegum fötum. Margt fólk- Hann hafði heyrt um þetta alt og hann grét mikið.

Margrét tók þá vaðmálsstranga. — Það dugði ekki annað en eiga vaðmálspjötlu á hendi með fjórtán börn, fram í afdal og koma ekki í kaupstað nema kanske einu sinni á ári — kanske aldrei á árinu. Svo Margrét tók á vaðmálsstranga sínum, sneið buxurnar handa litla snáðanum og þræddi saman svo að vel dugði, þá á Sunnudagsmorguninn og lofaði drengnum með sér til kirkjunnar. — Það er einmitt þetta, kæru tilheyrendur. -- Þetta sem gerst hefir í hljóði — Tárin þerruð, sárin mýkt og grædd, myrkrinu vísað á bug með ljósinu -- ljósi á lýsiskolu stundum -- í fátæklegri baðstofu, ljós hjartans skein alveg eins skært þar -- ljós manngæsku og vitsmuna, ljós sjálfviljafórnar sem möglaði ekki þó byrðin væri þung -- kvartaði ekki þó stundum lægi í herðum, heldur hélt beint áfram -- áfram -- framhjá skuggunum og öllum þeim ógnum sem æskan óttaðist í skuggunum -- áfram hjá heimsku og hjátrú inná svið hins sanna ljóss og lífs. --

Það er með því að tendra þetta ljós fyrst og fremst í sál þeirra sem konan umgengst, að hún getur vonast eftir að koma fram til góðs á heimssviðinu.

Svo vil ég þakka fyrir alt gott, sem mér hefir hlotnast fram að þessu. Guði sé lof fyrir að ég fékk að þekkja kristna trú. Fyrir foreldra, ættir, uppruna og föðurland. Fyrir þá sem hjúkruðu mér í æsku og kendu mér að þekkja Guð og frelsarann. Fyrir að leiða mig í þetta land. Fyrir vænan eiginmann, sem með óþreytandi elju hefir erfiðað fyrir tilveru okkar og barna okkar, fyrir börn, sem eru ráðvönd og unna okkur af heilum hug, fyrir velviljaða tengdasonu fyrir efnileg barnabörn. Fyrir að hafa gefið mér og mínum heilsuna aftur og aftur, oft úr þungum viðjum. Fyrir að hann leyfði mér, svo örlítil sem ég er, að taka þátt í því hinu mikla landnámsstarfi þjóðar minnar í Norður-Ameríku. -- Fyrir alt, sem lífið hefir rétt að mér, blítt og strítt, þakka ég Drotni.

Svo þakka ég yður öllum, sem eruð hér í kveld, fyrir þólinmæðina að hlusta á þessi orð, sem ég hef flutt. Og hjartans þakkir til Bandalags Lúterskra Kvenna, fyrir að bjóða mér að koma hingað og allra þeirra sem hafa stutt að því á einhvern hátt.

Enn vil ég þakka Mr. og Mrs. Arinbjörn Bárdal fyrir framúrskarandi alúðlega gestrisni á þeirra höfðinglega heimili, er þau hafa látið okkur þremur í té manni mínum, dóttur og mér allann tímann sem þing Bandalags Lúterskra Kvenna stóð yfir.

# Mrs. Elizabet Þuríður Polson

Á síðastliðnu vori átti Elízabet Polson áttatíu ára afmæli. Var þess minnst með mannfagnaði á heimili dóttur hennar og tengdasonar; margir fjarverandi vinir þessarar merku konu voru þar staddir í anda með blessunaróskir í huga til hennar, sem hefir starfað svo vel og lengi, sem hefir glatt svo marga bágstadda, sem hefir heimsótt svo marga sjúka og sem hefir stráð gleðigeislum á leið þeirra, sem einmana eru, sem hefir verið hin góða eiginkona og móðir.



**Mrs. Elizabet Þ. Polson**

Hún var fædd 3. apríl 1869. Foreldrar hennar voru þau Gísli Konráð Eiríksson og Elízabet Þuríður Jónsdóttir. Til Ameríku fluttist hún árið 1876. Hún giftist Ágúst Gunnarssyni Polson 3. júní 1888. Var sambúð þeirra hin ánægjulegasta, heimilið glaðvært og aðlaðandi. Barnahópurinn var stór, 11 alls. Þar af lifa 7 dætur og tveir synir. Einn son misstu þau á unga aldri, annar lét líf sitt í hinu fyrra heimsstríði. Mann sinn missti Elízabet fyrir fáum árum. Heimili Polsonshjónanna var fyrst í Winnipeg, fluttu þau svo til Gimli og áttu þar heima í mörg ár. Fluttu þaðan til Winnipeg og settust að í húsi því, sem verið hafði heimili séra Jóns og frú Láru Bjarnason, 118 Emily street. Hin síðari ár hefir Elízabet átt heima hjá dóttur sinni og tengdasyni Mr. og Mrs. P. Goodman í Winnipeg.

Polsons heimilið var ávalt mannmargt, efnin voru aldrei mikil, en þó virtist þar aldrei skortur á neinu, ætíð nóg fyrir hendi ef einhvern þurfti að gleðja, hendur útréttar til að hjálpa þeim, sem

þess þurftu með. Barnahópurinn fallegur, börnin ávalt glaðleg, sælleg og vel uppfærð. Árin sem þau bjuggu á Gimli voru börnin ung og heimilisannir miklar, þó virtist svo sem húsfreyjan hefði nógan tíma til að sinna félagsstörfum utan heimilis. Þau hjónin bæði voru samhent í að starfa fyrir Lútersku kirkjuna, sem þau unnu af heilum hug. Elízabet var í mörg ár forseti safnaðar kvenfélagsins Framsókn. — Sérstaklega er mér minnisstæð kirkjusókn Polsons fjölskyldunnar á Gimli. Mér er sem ég sjái bekkinn þeirra nálægt miðri kirkjunni að norðanverðu, sem var fullskipaður við hverja guðsþjónustu. Þar var öll fjölskyldan saman. Líka minnist ég þess með gleði og aðdáun hvernig að börnin öll sóttu sunnudaga skóla og eftir að leiðir eldri systranna lágu að heiman sóttu þær ávalt sunnudagaskólann á Gimli þegar þær komu heim um helgar þó fullorðnar væru.

Eftir að fjölskyldan flutti til Winnipeg mun Elízabet lítið hafa gefið sig við félagsskap, en miklum tíma eyddi hún í heimsóknir til þeirra, sem sjúkir voru á almenna spítala bæjarins. Heimilið þeirra var þar nálægt og þangað átti hin þreytta móðir mörg spor. Margur sem þar lá veikur lengri eða skemmri tíma, vinafár og einmana mun blessa hana fyrir nærgætni og hughreistingu, og fyrir gleðina, sem hún færði með sér inn í sjúkraherbergi þeirra. — —

Fyrir mörgum öldum var skráð lýsing hinnar góðu konu, tileinka ég þau orð þessari áttræðu hetju, sem ennþá er ung í anda. *Hún breiðir út lófann móti hinum bágstadda og réttir út hendurnar móti hinum snauða. — Hún vakir yfir því, sem fram fer á heimili hennar og etur ekki letinnar brauð. Börn hennar ganga fram og segja hana sæla.*

INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON

   

Til hvers lifum við ef við gerum ekki tilraun til að gera lífið léttara fyrir samferðafólk okkar. *George Eliot*

# Blikmyndir úr sögu Mikleyjar

**Eftir Ingibjörgu Jónsson**

*Flutt í Mikleyjarkirkju 13. júní 1949*

Margar konur, sem sitja þetta tuttugasta og fjórða ársþing Bandalags lúterskra kvenna, hafa ekki áður komið til Mikleyjar. Við hugsuðum sem svo að þær myndu hafa meiri ánægju af ferð sinni ef þær kyntust að litlu leyti sögu eyjarinnar, og völdum því það efni. Erindið verður óhjákvæmilega nokkuð persónulegt og bið ég velvirðingar á því. Ég takmarka efnið að mestu leyti við það, sem ég þekti bezt til og svo við hinn kirkjulega þátt sögunnar vegna þess að við erum hingað komnar, í vissum skilningi, í kirkjulegum erindum. —

Þessi eyja hafði fengið nafnið , Big Island, áður en Íslendingar námu hana, því hún er önnur stærsta eyjan í Winnipegvatni — 18 mílur á lengd og 6 mílur þar sem hún er breiðust. — Íslendingar, er þeir komu hingað, þýddu strax nafnið, og varð það mun tilkomumeira og fegurra á þeirra tungu; þeir nefndu eyjuna Mikley og sjálfa sig Mikleyinga.

Litlar sögur fara af Mikley áður en Íslendingar komu. Telja má þó víst að hún hafi í aldaraðir, verið áningarstaður frumbyggja landsins, Índíánanna, á ferðum þeirra um þetta mikla vatn. Eyjan var vaxin þéttum skógi að austanverðu og þar hefir verið gott til dýraveiða, en að vestan eru grassléttur og er ekki ólíklegt að þar hafi vísundar haldið sig. Steinn hefir fundist hér, sem líkur er þeim, er Indíánar notuðu til að rota þessar skepnur.

Eftir að Hudson Bay félagið stofnaði loðskinna verzlun sína á 17 öld, sóttu Indíánar til York Factory víðsvegar af sléttunum með vörur sínar. Þeir mæltu sér oftast mót á Winnipegvatni. Þeir, sem komu ofan Assiniboine og Rauðána, munu oft hafa lent barkarkænum sínum við þessa strönd, slegið upp tjöldum sínum, kynt elda, haldið veizlur og dansað, eins og þeirra var venja, því þeir voru glaðsinna menn og frjálslegir, og gerðu sér litlar áhyggjur út af morgundeginum.

Ekki eru menn sammála um það hverjir hafi fyrstir hvítra manna komið á þessar slóðir. Þykir sumum líklegt að Íslendingar hafi komist á skipum sínum frá Hudsonflóanum til Winnipeg-

vatns 1362; siglt suður vatnið, komið við í Mikley á leið sinni til Rauðárinnar. Þetta eru getgátur enn sem komið er, en víst er að hinir miklu frönsku landkönnuðir, La Verendrye og synir hans fundu Winnipegvatn 1837 og ferðuðust um þetta svæði og á eftir þeim komu loðskinna kaupmennirnir. Og sjálfsagt hafa hinir fyrstu landnámsmenn Vesturlandsins — Skosku landnámsmennirnir 1812, hvílt sín lúin bein á bökkum eyjarinnar á hinni löngu ferð til Rauðárdalsins. — Mikley hefir áreiðanlega verið áningarstaður í fyrri tíð landsins.

Þær fyrstu heimildir, sem ég hefi getað aflað mér um sögu eyjarinnar eru í *Manitoba Milestones* eftir Margaret McWilliams. Þar skýrir hún frá því að Henry McKinney — sá, er fyrstur manna reisti hús á Portage og Main gatnamótunum í Winnipeg — hafi siglt skonnortu sinni Jessie McKinney, út til Mikleyjar (Big Island), árið 1868, felt þar timbur og flutt það til Selkirk; varð það þorp eftir það, miðstöð timburiðnaðarins í Manitoba, í fjölda mörg ár.

Sjö árum síðar fluttu Íslendingar norður að vatninu. Nýlendusvæði þeirra náði frá Merkjalæk — Boundary Creek — og norður fyrir Mikley. Haustið 1875 komust þeir ekki lengra en norður að Gimli. Þegar voraði, leituðu margir lengra norður á bóginn og sumir komust til Mikleyjar.

Oft hefir fólk undrast yfir því að Íslendingar skyldu sækja út í eyju, í þá einangrun, sem eylendan býr þeim. En þannig virðist það hafa ávalt verið. Ísland er eyja og margar smáeyjur við strendur Íslands eru byggðar þrátt fyrir nóg landrými á landinu sjálfu og þrátt fyrir erfiðar samgöngur við eyjarnar. Það er eins og einhver æfintýraljómi hafi hvílt yfir eyjum í huga Íslendinga. — Hér er smáeyja fyrir vestan Mikley, sem Engey heitir. Einn ágætasti frumherji Mikleyjar nam þessa eyju, en varð að flytja þaðan eftir nokkur ár vegna flæðis og síðan hefir hún verið í eyði.

Annars var það nú ekki æfintýraleit, sem vakti fyrir hinum snauðu íslenzku mönnum, er hingað fluttu, heldur leit eftir stað þar sem tryggast yrði um afkomu þeirra. Og sannleikurinn er sá, að á þeim tíma var Mikley ekki einangraðri en aðrir hlutar nýlendunnar; hún hafði í raun og veru meiri sambönd við umheiminn en aðrar byggðir í Nýja Íslandi. Eins og áður er getið, var byrjað þar á timburtekju árið 1868 og hafa því verið af og til, ferðir á timburflutningabátum milli eyjarinnar og Selkirk.

Fyrsti Íslendingurinn, sem fluttist til eyjarinnar vorið 1876, hét Magnús Hallgrímsson. Hann hafði frétt að sögunnarmylla væri austanvert á eyjunni og hugsaði sem svo að hann myndi geta fengið atvinnu hjá myllueigendunum. Þetta reyndist rétt; hér var rekin sögunarmylla af mönnum frá Selkirk og hún stóð hér um bil á sama stað og myllan, sem er hér rétt fyrir sunnan kirkjuna. Öll víkin dregur nafn sitt af henni og er kölluð Mylluvík. Magnús tók heimilisréttarland og er það landið, sem er rétt fyrir norðan kirkjuna og grafreitinn. Hann nefndi bæ sinn Ingólfsvík eftir syni sínum, Ingólfi, er heitinn var í höfuðið á Ingólfi Arnarsyni, fyrsta landnámsmanni Íslands. — Fjöldi Íslendinga fluttist til eyjarinnar þetta ár — 1876.

Ekki höfðu landnámsmenn eins mikið gagn af myllunni eins og þeir höfðu gert sér vonir um. Umsjónarmaður hennar var Skoti að nafni, Tom Hillgrow. Hann þóttist hafinn yfir þennan öreiga aðkomulýð og var illur viðureignar. Íslendingar uppnefndu hann þegar og kölluðu hann geðilla Tom. En svo henti það Tom að hann varð ástfanginn í íslenzkri stúlku, sem Hanna hét; þau giftust og er ekki ósennilegt að hann hafi verið geðbetri við Íslendinga eftir það.

Sjálfsagt hafa landnámsmenn getað fengið eitthvað af borðvið til húsagerðar frá myllunni; þar var líka smáverzlun. En þetta fólk hafði litla sem enga peninga meðferðis; fátæktin var nístandi, sulturinn svarf sífelt að því. Þar við bættist hýbýlakuldi. Fyrsti veturinn var einn sá mesti snjóavetur, sem sögur fara af. En ægilegastar voru þó hörmungar bóluveikinnar, sem barst þann vetur til eyjarinnar. Sagt er að þrjátíu manns hafi dáið úr henni; þeir hvíla á Kirkjubóli, suður á eyjunni. Mun það láta nærri að fimti hver maður hafi dáið, eftir voru aðeins 115 manns. —

En nú fer ofurlítið að rofa til. Eyjarmenn mega vera geðilla Tomma þakklátir fyrir eitt; hann kendi þeim að veiða undir ís, en hann hafði sjálfur lært það af Indíánum. Íslendingar komust fljótt upp á að fiska sér til matar og annan veturinn, sem þeir voru hér, kom innlendur maður á hestum með hveitimjöl og lét þá fá einn sekk fyrir 56 hvítfiska og þar með hófust fiskiviðskipti Íslendinga og hinn mikli fiskiútvegur þeirra á Winnipegvatni. Fiskimiðin við Mikley og norðan við Mikley voru talin ágæt og

þangað sóttu menn á vetrin úr öðrum hlutum nýlendunnar. Mikleyjarbúar voru þannig betur settir en aðrir nýlendumenn í þá daga, en þó gátu þeir ekki veitt sér nema brýnustu nauðsynjar fyrstu árin.

Amma mín, Margrét á Reynistað, sagði mér frá því hve hún hefði saknað þess að fá aldrei kaffisopa, en svo hugkvæmdist henni að brúna hveitikorn, mylja það og nota það sem kaffi og þótti henni það allgott. Te var búið til úr laufum af lyngi; það var nefnt Indíána te. Lögur úr birkitrjám var soðinn niður og notaður sem sykur. Brauðgerðin var einföld fyrst í stað — flatkökur steiktar ofan á stóarlokunum.

Eina kú hafði afi minn keypt á Gimli þegar hann kom 1876, og átti hann þá eftir aðeins 25 cent í vasanum. Þeir, Sigurður Erlendsson og hann réru með fjölskyldur sínar á smábát frá Gimli og norður til Mikleyjar — 40 mílur. Kýrin var með í ferðinni, hefir sennilega verið teymd norður með ströndinni og svo lagt á stað með hana á dalli eða fleka yfir til eyjarinnar. Myrkur skall á áður en eyjunni var náð og kýrin varð viðskila við bátinn og bjóst enginn við að sjá hana framar. Ferðafólkið náði landi vestanverðu á eyjunni, kynti eld og bjó um sig eins og bezt það gat, en illa leið því, því sárt var að missa kúna. — Nokkru seinna heyrir það ógurlegan skruðning í skóginum, eins og einhver afarstór skepna væri að brjótast í gegnum hann. Má nærri geta að því hefir ekki orðið um sel. Skepna þessi ryðst nær og nær, rekur upp ógurlegt öskur og hleypur til þeirra. Þar var þá kýrin komin; hún hafði getað svamlað til lands, en á öðrum stað, og sótti svo þangað sem eldurinn var. Þetta var mikið lán því kýrin var sannarleg búbót og kom sér vel fyrir fleiri; mjólkinni var skipt upp á milli fjögra og fimm fjölskyldna.

Fyrsta veturinn, þegar hungrið svarf sem sárast að fólkinu, var amma mín einn dag að ganga meðfram skógarjaðrinum. Þá sér hún hvar villidýr, sennilega úlfur eða minkur, kemur úr skóginum með héra (rabbit) í kjaftinum. Hún grípur þegar lurk og ræðst að dýrinu og nær af því héranum; það kvöld gat hún gefið fólki sínu góða máltíð. Amma mín lét sér ekki allt fyrir brjósti brenna. — Ég minnist þess hve hún var fljót að tína ber; mun hún fljótt hafa lært að notfæra sér þau, og allt annað matarkyns, er umhverfið lét í té. Hún hjálpaði manni sínum til að ryðja

skóginn af landinu; það munu og fleiri landnámskonur hafa gjört, en það kom sérstaklega til hennar kasta vegna þess að afi minn hafði fengið beinkröm á Íslandi og bak hans var knýtt.

Hinir íslenzku frumherjar voru sterktrúaðir menn, enda hafa hinir miklu erfiðleikar og djúpu sorgir þeirra komið þeim til að leita styrktar og varðveizlu hjá æðra mætti en þeirra sjálfra. Húslestrar voru hafðir um hönd á flestum heimilum á sunnudögum; heimilisfólkið klæddist eins snyrtilega og ráð voru á, áður en það settist niður að hlusta á lesturinn og sýndi þannig virðingu fyrir sjálfu sér og fyrir athöfninni.

Fimm söfnuðir voru myndaðir í Nýja Íslandi 1877 og var einn þeirra Mikleyjarsöfnuður. Fyrsti prestur, sem hingað kom mun hafa verið séra Jón Bjarnason, og var frú Lára, hans tryggi förunautur, með honum. Séra Rúnólfur Marteinsson lýsir greinilega þessari fyrstu prédikunarferð séra Jóns um vegleysur Nýja Íslands, í Minningarriti séra Jóns, þau fóru fótgangandi — því aldrei eignaðist séra Jón hest — norður að Ísl. Fljóti og þaðan til Mikleyjar. Vatnið var nýlagt og hættulegt yfirferðar en ekkert gat aftrað þessum sterktrúuðu hjónum frá því að sinna köllun sinni. Þau höfðu skilið við þægileg lífskjör í Minneapolis til þess að verða við bænum Ný Íslendinga um prestsþjónustu.

Þau hjónin heimsóttu byggðarbúa og séra Jón hélt guðsþjónustu, sem fimtíu manns sóttu. Að henni lokinni var haldinn safnaðarfundur og vandaði þá séra Jón um við eyjarbúa út af siðferðisástandi þeirra. Úr þessu mun þó hafa verið bætt næsta vetur því þá kom hingað séra Páll Thorlákson og vígði saman fern hjónaefni í einu.

Nú henti nýlenduna það ólán að þessir prestar, sem báðir voru drengskaparmenn og miklum leiðtogahæfileikum gæddir hófu deilur um ýms trúaratriði og skiptust menn í tvo flokka um alla nýlenduna, eins í Mikley sem annars staðar; ávalt þegar ágreiningur hefir orðið innan Vestur Íslenzkrar kirkju, hefir hann bergmálað hér og haft slæm áhrif á félagslífið eins og annars staðar. Mikill rígur varð á milli manna í þessari flokkaskiptingu. Hann bættist ofan á alla aðra erfiðleika. Mikið var nú farið að bera á óánægju með val þessa nýlendusvæðis. Um þetta leiti varð stórflóð, sem eyddi ökrum og skemdi hús bænda. Mörg hundruð manna tóku sig upp og fluttu burt svo nærri lét að nýlendan legðist í eyði.

Séra Páll hafði valið nýlendusvæði í Dakota og fluttu margir þangað en aðrir til Argyle. Árið 1877 voru 26 búendur í Mikley en eftir að útflutningunum lauk, voru þar aðeins 8 eða 10 fjölskyldur.

Mikleyingar urðu fyrstir manna í Nýja Íslandi til að reyna að koma sér upp kirkju og í þeim tilgangi feldu þeir tré árið 1878, en myllueigendurnir reyndust þeim illa og tóku með valdi 200 viðarbjálka, sem ætlaðir voru til kirkjunnar. Olli þetta mikilli óánægju sem von var. Frá þessu er skýrt í landnámsþáttum Thorleifs Jacksonar. Ekki veit ég hverjir þessir ofbeldismenn voru. Skömmu seinna urðu víst eigendaskipti. Þá tók við umsjón myllunnar maður frá Selkirk, Moody að nafni, og mun hann hafa reynst Íslendingum vel, því ég heyrði hans ávalt minst hlýlega.

Tíu ár liðu þar til Mikleyingar tóku sér fyrir hendur á ný að reisa kirkju. Mun sú bið hafa stafað af útflutningunum og prestsleysi í Nýja Íslandi, því séra Jón fór til Íslands 1880. —

— Ég segi ykkur frá því, að gamni mínu, að tveir ungir menn frá Gimli voru ráðnir til að reisa kirkjuna. Þeir höfðu fluttst þangað tveim árum áður ásamt móður sinni og systkinum. Þeir hétu Jakob og Vilhjálmur og var sá fyrnefndi faðir séra Skúla. Vilhjálmur og hin unga heimasæta á Reynistað feldu hugi saman og giftust. Þau voru foreldrar mínir, þeirra heimili var rétt fyrir sunnan kirkjuna. —

Kirkjusmíðinni var lokið sumarið 1890 og Mikleyjarsöfnuður, þótt fámennur væri, varð þannig á undan öllum söfnuðum í Nýja Íslandi að reisa sér kirkju.

Nokkrum mánuðum síðar, á páskadaginn 1891 gerðist sá viðburður í Mikleyjarkirkju að séra Magnús Skaptason, sem gerst hafði prestur í Nýja Íslandi 1887, flutti prédikun og andmælti harðlega fordæmingarkenningu lútersku kirkjunnar. Síðan flutti hann þessa sömu prédikun yfir öllum söfnuðum sínum í Nýja Íslandi. Hófust nú trúarbragðadeilur á ný, söfnuðirnir sundruðust og sumir sögðu sig úr kirkjufélaginu, þar á meðal Mikleyjarsöfnuður, því fylgjendur séra Magnúsar voru þar í meiri hluta. Og nú varð kirkjan að deiluefni því allir höfðu lagt til hennar. Gekk deilan svo langt að eitt sinn settu utansafnaðarmenn lás á kirkjuna. Þá sendi kirkjufélagið séra Jónas Sigurðsson norður og gat hann talað svo um fyrir mönnum að lásinn var tekinn burt, en ekki var deilunni lokið.

Séra Jón Bjarnason, sem þá var orðinn prestur í Winnipeg og forseti kirkjufélagsins gerði sér ferð norður nokkru síðar. „Ekki til að ræða kirkjumál hið ytra“, segir hann í Sameiningunni, „heldur til að heilsa upp á menn í Jesú nafni, og eftir mætti hvetja menn til að glæða hjá sér ljós kristinnar trúar í hjörtum og húsum“.

Það var ekki fyr en séra Rúnólfur Marteinsson gerðist þar prestur um aldamótin að ágreiningnum slotaði. Utansafnaðarmenn byrjuðu aftur að leggja fram fé til kirkjunnar. Einn ágætur byggðarbúi, Jón Jónsson í Grund, tók að sér að ná tali af öllum utansafnaðarmönnum og hann fékk þá til að sleppa tilkalli sínu til kirkjunnar og þeir gerðu það skilyrðislaust og var það göfugmannlega gjört og Mikleyingum til sóma að þeir jöfnuðu ágreining sinn á friðsamlegan hátt. Söfnuðurinn mat þetta og utansafnaðarmenn fengu kirkjuna til afnota þegar þeir þess þurftu. — Það hefir jafnan verið hátt til lofts og vítt til veggja í Mikleyjarkirkju; safnaðarmenn hafa ef til vill haft þessi orð í huga: „Í húsi mínu rúmast allir, allir“.

Nú var ekkert til fyrirstöðu að kirkjan væri vígð og það varð að framkvæmd 14. sept. 1902. Séra Jón vígði kirkjuna með aðstoð séra Steingríms Thorlákssonar og sóknarprestsins.

„Vígsluathöfnin var dýrðleg og hrifning mannfjöldans mikil“, ritar séra Rúnólfur. „Þarna sáu menn, sem höfðu barist þungri baráttu fyrir lúterskum kristindómi, drauma sína rætast. Ég nefni suma þeirra: Helga á Reynistað, Stefán á Jónsnesi, Halldór í Hlíðarhúsum, Helga Ásbjörnsson, Vilhjálm Ásbjörnsson, Ágúst Magnús son, Elías á Melstað, Stefán á Höfða, Márus Doll og marga fleiri að ógleymdu kvenfólkinu, sem voru engir eftirbátar karlmannanna í trúmensku við Krist og kirkju“. —

Skömmu eftir aldamót var flóð svo mikið að lönd og hús bænda stórskemdust og fluttu þá margar fjölskyldur úr byggðinni. —

Það fyrsta sem ég man eftir í sambandi við kirkjulíf eyjarinnar, var það að ég var að hlýða á messu hjá séra Rúnólfi. Ég var of ung til að veita prédikuninni eftirtekt, en var í þess stað að horfa á alt í kirkjunni: Hún var lítil, þótt mér þætti hún stór þá. Hvelfingin var há og máluð bláum lit, gluggarnir voru háir og oddmyndaðir að ofan, og efstu rúðurnar bláar, grænar og rauðar.

Altarisborðið var klætt dökkrauðu flosi, prýtt með gullnu kögri og gullnum stöfum. Alt þetta þótti mér afar glæsilegt en þó horfði ég mest á prestinn; hann stóð í hvítum prédikunarstól, sem var á palli bak við altarið og gráturnar. Mér þótti presturinn fallegur maður, en starsýnast var mér á hendur hans, þegar hann fletti blöðunum; aldrei hafði ég séð svona hvítar og mjúkar hendur. — Þessi ungi prestur var elskaður og virtur af öllum sínum sóknarbörnum. Söngurinn var hrífandi; Sigurgeirsson bræðurnir sex frá Grund í Eyjafirði höfðu sezt að á eyjunni og þeir voru allir ágætir söngmenn og léku á hljóðfæri. Þeir gerðu kirkjusönginn fullkomnari og juku á skemtanalíf eyjarinnar.

Presturinn gisti ávalt á Reynistað. Ég man að amma hafði sérstakt herbergi fyrir hann, prestsherbergið. Það var eins fínlegt eins og ráð voru á í þá daga. Enginn annar fékk að sofa í því herbergi nema, að brýn nauðsyn krefði. Það hefir jafnan verið gestkvæmt á Reynistað; um þann stað liggur ferðamannastraumur norður og austur um vatnið, þangað hefir margur lúinn ferðamaður verið feginn að koma. Núverandi húsfreyja þess staðar, stendur ekki að baki ömmu minnar í þeirri list að kunna að taka vel á móti gestum. —

Það er áreiðanlegt að enginn einn maður hefir gert meir að því að halda uppi kristindómsfræðslu á eyjunni en Helgi heitinn Ásbjörnsson. Í marga tugi ára stjórnaði hann sunnudagaskólanum og undirbjó börnin fyrir fermingu. Hjá honum lærðum við líka að lesa íslenzku. Hann var oftast erindreki safnaðarins á kirkjuþingum. Ég man svo vel eftir þessum hvítskeggjaða manni; góðmenskan og trúargleðin skein ávalt af andliti hans. Og ég man eftir fallegu kortunum sem hann gaf okkur — Ljósgeislunum, með litmynd öðrumegin en lexíunni hinu meginn. — Það hefði verið vel gert af kirkjufélaginu að halda uppi útgáfu Ljósgeisla meðan nokkurt barn les íslenzku. — Í minningargrein um Helga ritar séra Rúnólfur: „Með Helga látnum hefir Mikley mist kenniföður þó ekki væri hann prestvígður".

Mér þótti vænt um séra Jóhann Bjarnason, hann fermdi mig. Hann útlistaði oft ræður sínar með smásögum og þótti mér það skemtilegt. Einhvern veginn hafði ég lært svo mikið á orgel að ég gat spilað í kirkjunni og man ég hve mér þótti mikið í það varið þegar séra Jóhann sagði við mig: „Orgelleikur þinn er taktfastur

og það líkar mér vel". Séra Sigurður Ólafsson þjónaði Mikleyjarsöfnuði mörg ár og var dáður af öllum fyrir ljúfmensku sína.

Kirkjan var byggð úr sandsteypu og það byggingarefni gafst ekki vel, hún var því rifin og þessi kirkja reist 1928. Séra Rúnólfur harmar það að gamla kirkjan var ekki látin standa sem minnismerki, og það gjöra fleiri. „Andi frumbyggðarinnar speglaði sig þar", ritar hann. „Það var eitthvað þar sterkt og hreint".

En þessi kirkja, sem við nú erum í, er líka falleg og hún er miklu stærri en sú gamla. Forseti kirkjufélagsins, séra Kristinn K. Ólafsson, vígði hana 21. ágúst 1938. Margir prestar kirkjufélagsins voru viðstaddir og héldu hér prestafund. Ári síðar var kirkjuþingið haldið hér og þótti þingmönnum það æfintýralegt að *sigla* nú í fyrsta sinn á kirkjuþing. Ég hygg að ekki hafi verið ritað eins mikið um nokkurt þing kirkjufélagsins eins og þetta fimtugasta og fimta þing þess, og skýri ég ekki frá því frekar.

Ég vil nú minnast lítillega á félagsstörf kvenna. Eina konu vildi ég fyrst aðeins nefna, en það er ljósa mín, Sólveig heitin Hoffman. Þessi þrekmikla kona var margri móðurinn hjálparhella á frumbýlingsárunum.

Árið 1886, 4. marz, mynduðu 14 konur kvenfélag, hið fyrsta í Nýja Íslandi. Félagið var nefnt *„Undína"*. Þegar 40 ára afmæli þess var haldið hátíðlegt 1926 var aðeins ein stofnendanna á lífi: Margrét Tómasson á Reynistað. Árið 1898 stofnaði kvenfélagið lestrarfélag og gaf því nafnið, *Morgunstjarnan.* Fyrsti bókavörður þess er enn á lífi: Kristjana Thordarson í Winnipeg, síðar varð Páll heitinn Jakobsson bókavörður og hefir safnið verið á Steinnesi jafnan síðan, en það var almenningseign strax á öðru ári félagsins.

Kvenfélagið var stofnað í þeim tilgangi að líkna bágstöddum en síðar tók það á stefnuskrá sína að hlynna að kirkjulegu starfi. Hér, sem annars staðar, hélt félagið skemtisamkomur til að afla sér fjár. Byggðarfólk var fengið til að skemta með söng, ræðuhöldum, upplestrum og leiksýningum. og var þetta góð og uppbyggileg skemtun. Fleiri félög héldu slíkar samkomur, en venjulega var kvenfélagssamkoman bezt, því enginn gat fengið af sér að neita konunum um að taka þátt í skemtiskrá. Ég man hve við unglingarnir hlökkuðum til samkomanna og hve við fögnuðum því þegar samkomu auglýsingin kom; hún var venjulega í opnu umslagi og utan á það var skrifað: „Auglýsing þessi berist hús

úr húsi norður í Grund“ eða þá, „suður í Skógarnes“. Og margir minnast þess hve gaman var að æfa leiksýningarnar. Hér voru sýndir; Vesturfararnir, Skuggasveinn, Syndir annara og mörg önnur stór leikrit. Þannig varð starfsemi kvenfélagsins til að fjörga félagslífið, og fólkið, sem skemti hafði bæði gagn og gaman af þessu. Enn er þessari starfsemi haldið uppi af kvenfélaginu í Mikley. —

Á síðastliðnum tíu — tólf árum hafa margar fjölskyldur flutt burt af eynni, ekki vegna flæðis í þetta skipti, heldur vegna þess, að Kyrrahafsströndin hefir dregið til sín fólk úr mörgum byggðum Íslendinga með einhverju óskiljanlegu seiðmagni. En byggðin nær sér aftur; fólki líður hér yfirleitt vel. Hér hefir enginn orðið auðugur; á hinn bóginn hefir fólk ekki liðið skort. Hér þurfti enginn að þiggja atvinnuleysisstyrk á kreppuárunum.

Fiskiútvegurinn hefir verið aðal atvinnuvegurinn; skógurinn og myllan hafa komið eyjarbúum vel. Þar að auki er landbúnaður stundaður í smáum stíl, þótt hann sé erfiður, vegna þess að heyin verður að sækja á graslöndin vestur á eyjunni en þar er ekki hægt að búa vegna flæðis áhættu.

Tveir skólar eru hér; í öðrum er kent upp í ellefta bekk. — Síminn var lagður hingað fyrir 30—35 árum. Útvarpsviðtæki eru á flestum heimilum. Póstur tvisvar í viku, með honum er ferðast á þrem kl.st. til Riverton. Bílfær braut hefir verið lögð þvert yfir eyjuna. Ef mikið liggur á, er hægt fyrir læknir frá Riverton að komast hingað á liðugri kl.stund. Hann ekur á bíl ofan að ósunum; þar bíður hans vélbátur og flytur hann yfir ósanna, sem eru um mílu á breidd. Vestan á eyjunni bíður bíll, er flytur hann þvert yfir eyjuna hingað. Á veturna er ekið á bílum eftir vatninu og þá er ferðin til Riverton eða til járnbrautar um kl.stund. Að þessu athuguðu er ekki hægt að segja með réttu að byggðin sé einangruð eða úr sambandi við umheiminn. Þó hefir það verið óánægjan með samgöngurnar, sem hefir komið mörgum til að flytja héðan.

En miklir útflutningar hafa átt sér stað tvisvar áður í sögu Mikleyjar, um 1880 og skömmu eftir aldamótin. Því fólki, sem eftir er þykir vænt um eyjuna sína fyrir náttúrufegurð hennar og friðsæld og fyrir þær minningar sem við hana eru tengdar. Það treystir á framtíð Mikleyjar og veit að þess verður ekki langt að bíða að skörðin fyllast á ný.

# Winnipeg's Seventy-fifth Anniversary

Thousands of visitors from all parts of Canada and United States came to Winnipeg the week of June 5-11 of this year to join with its citizens and celebrate the 75th anniversary of this city.

Since its incorporation as a city in 1873, Winnipeg, with less than 2000 inhabitants and covering a few acres of low-lying prairie, at the junction of the Red and Assiniboine Rivers, has grown to a metropolis of miles of landscaped streets, fine residential districts, innumerable modern industrial plants and buildings, institutions of culture, towering churches, beautiful public parks and a population of 320,000.

Winnipeg has been called the most cosmopolitan city in Canada. This may be attributed in large part to its geographical location, midway from the east coast to the Pacific and considered the gateway to the vast prairie agricultural area to the west. Originally settled by English, Scots and French and followed by people from every country in Europe who came to settle the prairies. Many came to live in Winnipeg where each ethnic group has contributed to Canadian life the cultural heritage of its race.

As Winnipeg was slowly emerging from its first muddy ox-trails and oft-flooded prairie, as a city in the early seventies, our first group of brave adventurous people from Iceland arrived to face the struggles and hardships of pioneer life in rural districts and in Winnipeg. We may with pride say that those first pioneer Icelanders that settled in Winnipeg, gave generously of toil and courageously surmounted the stress that beset them as strangers in a strange land. They contributed the best they had to give — good citizenship in its finest form.

Today the descendants of these brave and patient people may be found in all the city's departments of administration, in all professions and in all vocations of private enterprise. And from the very beginning of their years in this city, the Icelandic population has retained, developed and contributed generously of their cultural heritage brought from their homeland.

One of the attractive features in the six day program of celebration was a three-mile parade of ethnic groups, military service groups, industrial and other organizations. Many attractive floats were in this parade and citizens of Icelandic origin con-

tributed an original and unique float depicting the story of their migration from Iceland and showing the various contributions made to this city as Canadian citizens.

From the stark, lava-covered Mount Hecla to the foot of a rainbow, various phases of our industrial and cultural life were symbolized. Foremost on this float, looking into the future, was a young girl, representing our present generation of Icelandic origin.

When reviewing the story of our early pioneers, recognition must be made of the spiritual contribution made in the religious field, helping to foster the cultural attributes of our people. In all our records of early pioneer struggle for existence in this new land, we read of constant communal endeavor to organize for worship. We find in these records of Icelanders in Winnipeg and in other settlements, that those struggling to maintain the faith brought from their beloved homeland, are the ones most prominent in all cultural endeavors. Many of these people occupied positions of responsibility and honor in Winnipeg in a surprisingly short time.

These people, concerned about the spiritual welfare of our people, divided into two distinct groups, each working earnestly and sincerely in their respective field. Churches were built; at first small, humble; today they are larger, more pretentious.

The First Icelandic Lutheran congregation in Winnipeg was founded in 1878, four years after Winnipeg's incorporation and this church group has, through the years, carried on the work to which it was dedicated. We acclaim with reverent admiration the sustained devotion that these pioneer men and women of Lutheran faith gave to their church, paving the way for us and our descendants to follow as God-fearing, law-abiding and useful citizens of this fair city.

B H.

   

# Nýjung

Það var óvenjuleg kveðjuathöfn, sem haldin var sunnudaginn 9. janúar 1949 í St. Johns Presbyterian kirkjunni í Camas Washingtonríki í Bandaríkjunum. Kveðjuathöfn þessi var haldin fyrir ungan mann, Ralph Laird að nafni. Hann var einn af 14 háskólanemendum, er fórust í flugslysi vikuna áður. Flestum mun minnisstætt að lesa um það slys þegar flugvél hrapaði í Seattle, Wash., er leigð hafði verið til að flytja 27 stúdenta austur eftir jólafrí þeirra hjá foreldrum og vinum á ströndinni.

Við þessa kveðjuathöfn í Camas, voru engin blóm, samkvæmt ósk foreldra hins unga manns. Engin líkkista er gæti mint á hinn limlesta líkama hans er sálin hafði kastað af sér sem gömlu fati. Í stað hins vanalega jarðarfaraforms las presturinn tuttugasta og þriðja sálm Davíðs og faðir vor og las eftirfylgjandi bréf frá föður hins unga manns:

*Kæri JOHN!* —

„Ég skrifa hér niður hugsanir okkar viðvíkjandi því hvaða fyrirkomulagi við óskum eftir við kveðjuathöfnina:

Við héldum að við værum að kveðja Ralph fyrir sex mánaðatíma, eins og oft áður. Að þessu sinni hefir æðra vald breytt þeim áætlunum okkar og hans; hann hefir nú lagt upp í aðra ferð, okkur finnst áfangastaður hans sé fjarlægari en áður var. Þó getur vel verið að svo sé ekki. Okkur finnst hann svo fjarlægur af því, að nú getum við ekki skrifast á við hann né talað við hann og okkur finnst líkindi til að lengra verði til samfunda en við hugðum þegar við kvöddum hann.

Okkur virðist engin breyting vera á Ralph okkar þó hann hafi nú yfirgefið hinn jarðneska líkama: Þó maður missi lim er hann hinn sami og áður — hann hugsar, elskar og nýtur fegurðar náttúrunnar sem fyr. Þó Ralph hafi nú mist alla sína limi — allan líkama sinn er hann enn hinn sami alveg eins og hann hefði verið ef hann hefði mist aðeins einn lim. Hann er ef til vill glaðari og frjálsari en áður, eins og maður er á vorin þegar hann hefir lagt til síðu hinn þunga vetrarfrakka, sem var honum nokkur byrði.

Við trúum því að guð gefi einstaklingnum tækifæri til þroska

í þessari jarðnesku tilveru, til þess að vera fær um að forsorga fjölskyldu verður hann að vinna, hugsa og fórna; verður að þola ýmsa erfiðleika. Þannig þroskast sálarlífið, þannig eykst tækni og listfengi. Allt þetta verður varanlegt í eiginleikum sálarinnar. Þetta varir þó líkaminn eyðileggist.

Við trúum því einnig að okkur sé leyft að halda áfram að læra um alla eilífð. Okkur væri ómögulegt í okkar stutta lífi í þessari tilveru að nálgast þann alfullkomleik, sem birtist í Jesú Kristi. Þess vegna vitum við að sú menntun sem einstaklingurinn hlýtur hér alla æfina í gegn er aðeins sem einn dagur á mentaleið þeirri, sem varir alla eilífð.

Okkur skilst að tími hafi verið kominn fyrir Ralph og félaga hans að breyta til með námsferil og byrja á annari mentabraut. Og hver erum við, að við þorum að mótmæla að það hafi verið þeim fyrir beztu?

Auðvitað munum við sakna hans. Skemtilegu bréfin hans verða nú ekki fleiri — næsta sumar munum við minnast skemtistunda á síðasta sumri — á næstu jólum verður jólagleðin með öðrum hætti, þá verðum við aðeins þrjú en ekki fjögur.

Það verður ekki auðvelt, en við erum ákveðin í því að gleðjast hans vegna — hann hefir verið færður upp í skólanum — til hins nýja og fullkomnara lífs. Við munum ekki skyggja á sælu hans með því að vera sorgbitin.

Þess vegna er það löngun okkar að athöfnin á sunnudaginn verði kveðjustund þar sem vinir safnast saman. Við þráum að þar verði engin sorg sjáanleg, að þar verði rósemi og styrkur. Látum okkur gera þessa kveðjustund sólskinsríka og fagra, látum þögula óma fylla andrúmsloftið er túlka blessunaróskir til þeirra, sem eru að leggja frá landi í ferð til fjarlægra stranda.

Í þessum anda kveðjum við Ralph okkar og félaga hans og biðjum guð að halda vörð milli hans og okkar meðan viðskilnaðurinn varir.“

(Þessi grein er að mestu þýdd úr „The Readers Digest“. Henni er hér snúið á íslenzku með það í huga að tileinka hana öllum þeim foreldrum, sem hafa séð börn sín í blóma lífsins vera *færð upp í skólanum — til hins nýja og fullkomnara lífs*).

*Ingibjörg J. Ólafsson*

# Hillside Service at Camp Nawakwa

By Thjóðbjörg Henrickson

The inspirational highlight of each busy day at Camp Nawakwa is the evening devotional service at Upper Temple.

Upper Temple is an outdoor chapel on the side of a hill, facing west and some distance from camp. The magnificent panorama of woods, hills, valleys, corn fields and fruit orchards presents an unforgettable picture of beauty.

On this hillside are four semi-circular rows of white flint rocks cemented together in tiers, to form rows of seats, the top tier completing the semi-circular stone wall that encloses this outdoor temple. A stone pulpit stands in the opening of this semi-circle. The heaven above is its canopy.

It was indeed an inspiring experience to see close to three hundred teen-age boys come up the hill, from the woods below, singing as they walked and then take their seats in complete silence.

The whole service carried an air of religious reverence and was conducted by one or more cabin groups, showing careful planning and preparation throughout the service. The hymns and special music were rendered by a boy's choir conducted by the music director. The scripture lesson and prayers were read by the boys and the message delivered by their leader or by a visiting pastor. Although the speakers did not seem to raise their voices above the normal pitch of ordinary speaking, every word could be clearly heard. The singing was particularly resonant and its echo must have carried from hill to hill.

As the service ended, the last rays of a setting sun dipped below the rim of hills beyond, leaving the sunset's brilliant hues to fade away into the darkening blue of an evening sky and giving a quiet, sacred peacefulness to all.

As we wended our way down the hillside into the shadows of the wooded valley below, my companion quoted:

"Day is done
Gone the sun
From the hill, from the lake, from the sky,
All is well
Safely rest
God is nigh."

# Kristilegt Félag Ungra Kvenna í Reykjavík 50 Ára

Smekklegt og vandað afmælisrit er hið Kristilega Félag Ungra Kvenna í Reykjavík gaf út á fimtíu ára afmæli sínu hefir nýlega borist vestur um haf. Við lestur þess finnur maður til metnaðar og gleði. Þessar ættsystur okkar á Íslandi hafa starfað vel og dyggilega í þessum félagsskap í fimtíu ár.

Eins og oft á sér stað voru hin fyrstu ár félagsins erfið af ýmsum ástæðum. Félagið var stofnað af séra Friðrik Friðrikssyni 29. april 1899. Hin fyrsta forstöðukona þess var hin mikilhæfa kona, frú Valgerður L. Briem. Það virðist sem félagið hafi naumast komist á fastan fót fyr en árið 1908. Síðan hefir starf þess verið fjölþætt og orðið mörgum til blessunar.

Aðrar forstöðukonur félagsins hafa verið: Frú Anna Thoroddsen, frú Guðrún Lárusdóttir og frú Áslaug Ágústsdóttir, sem hefir verið forstöðukona frá því 1938.

Ýmsar myndir prýða þetta myndarlega rit, þar á meðal mynd af stjórnarnefnd frá fyrri árum og núverandi stjórnarnefnd. — Það heillar okkur, sem fæddar erum í þessari álfu, að horfa á þessar myndir sem sýna hinn tilkomumikla íslenzka þjóðbúning — hinn tigna norræna svip svo auðugan af alvöru og festu. Við blessum minningu þeirra, sem látnar eru og óskum þeim, sem enn eru að verki allrar blessunar í komandi tíð.

Bandalag Lúterskra Kvenna samgleðst K. F. U. K. yfir miklu og göfugu starfi í fimtíu ár. *I. J. Ó.*



*Aftari röð, talið frá vinstri*: Mrs. Johann Briem, Mrs. W. H. Paulson, Mrs Arni Frederickson, Mrs. H. Hermann, Mrs. Jón Björnson, Mrs. S. Christopherson. *Fremri röð*: Mrs. Sigtryggur Jónasson, Mrs. Friðrik Bergmann, Mrs. Jón Bjarnason, Mrs. Friðjón Frederickson, Mrs. Páll Bardal.

# Íslenzkar frumherja konur

Eftirfylgjandi kafli er helgaður minningu íslenzkra frumherja kvenna vestan hafs, er með fórnarlund sinni, atorku og kristilegu hugarfari höfðu djúp áhrif á samfélag sitt.

Mynd þessi er tekin árið 1891, og voru þessar konur staddar í Winnipeg ásamt mönnum sínum, sem voru það ár erindrekar á kirkjuþingi hins Ev. Lút. Kirkjufélags Vestur-Íslendinga.



*Guðrún Briem* F. 17. apríl 1863 — D. 18. apríl 1937.

Kom með foreldrum sínum til Nýja Íslands 1876. Giftist hún síðar Jóhanni Briem, bróður séra Valdimars sálmaskálds, Jakobs, sem mörgum var kunnur vestan hafs og frú Rannveigar Jónasson. Hún var starfandi meðlimur í Bræðrasöfnuði í Riverton, þar sem Grund, Briems heimilið, stóð. Í mörg ár stjórnaði hún sunnudagaskóla safnaðarins og lét sér af hjarta annt um velferðarmál safnaðar síns.



*Jónína Margaret Paulson* F. 14. febr. 1862 — D. 2. Apríl 1894.

Hún var bróðurdóttir séra Jóns Bjarnasonar og litlu eftir að hún kom frá Íslandi giftist hún Vilhelm H. Paulson. Hún var fríðleiks og gáfukona, starfandi í kvenfél. Fyrsta lút. safn. í Winnipeg. Fráfall hennar á unga aldri var samfélagi hennar harmdauði.



*Sigurbjörg Frederickson* F. 14. ágúst 1861 — D. 8. júlí 1941.

Var með foreldrum sínum í hópi þeim, sem settist að í Kinmount, Ont., 1874, en fóru til Nýja Íslands 1875. Í Winnipeg giftist hún Árna Frederickson og voru þau fram úr skarandi meðlimir Fyrsta lút. safnaðar þar til þau fluttu til Vancouver B. C.



*Magnea Hermann* F. 22. jan. 1846 — D. 3. feb. 1920.

Kom með manni sínum Hermanni Hjálmarssyni Hermann

frá Íslandi árið 1890, og með fjölskyldu sinni settust þau að í Garðar byggðinni í N. Dak. Þar tilheyrðu þau um margra ára skeið Garðar söfnuði. Síðar voru þau í Winnipeg meðlimir Fyrsta lút. safnaðar. — Magnea og frú Lára Bjarnason voru systur.



*Helga Björnson* F. 18. jan. 1842 — D. 16. des. 1932.

Kona Jóns Björnssonar frá Héðinshöfða í Þingeyjarsýslu, kom til þessa lands, ekkja með ungum syni sínum, Kristjáni Benediktssyni. Á fyrstu árum í Nýja Íslandi giftist hún Jóni Björnssyni og voru þau með frumherjum Argyle byggðar. Síðustu ár þeirra bjuggu þau að Baldur, Man. Helga var meðlimur Kvenfélags Frelsissafnaðar.



*Caroline Christopherson* F. 11 maí 1856 — D. 9. des. 1923.

Fædd í þessu landi, dóttir William Taylor, bróður John Taylor umboðsmanns canadísku stjórnarinnar í Nýja Íslandi. Seint á vetri 1876 voru gefin saman í hjónaband af kynblendinga presti, Sigurður Chirstopherson og Caroline Taylor, brúðhjónin öðrumegin bólusóttvarnarlínunnar og presturinn hinumegin. Með Skafta Arasyni og Kristjáni Jónssyni fór Sigurður vestur og nam fyrstur land í Argyle byggð, og þar bjuggu þau hjón og voru vel starfandi meðlimir í Frelsissöfnuði. Síðan fluttu Christophersson hjónin til Crescent, B. C. og bjuggu þar til æfiloka.

Susan, systir Mrs. Christopherson var kona séra Halldórs Briem. Báðar þær systur töluðu íslenzku og voru heima hjá sér í íslenzkum félagsskap.



*Rannveig Jónasson* F. 26. ágúst 1853 — D. 7. ágúst 1916.

Kom frá Íslandi 1876 þá nýgift Sigtryggi Jónassyni. Bræður hennar voru Jóhann og Jakob Briem í þessari álfu og á Íslandi, sálmaskáldið, vígslubiskup séra Valdimar Briem. Hún tilheyrði Fyrsta lút. söfnuði í Winnipeg, en að öðru leyti gaf hún sig ekki mikið að félagsmálum. Rannveig var frábærlega vel gefin og víðlesin. Á heimili þeirra var gestkvæmt og skemtilegt að koma.

Sérstakt lag hafði hún á því, að hæna börn að sér með hlýrri og vingjarnlegri kurteisi.



*Guðrún Bergmann* F. 29. sept. 1855 — D. 10. sept. 1938.

Giftist séra Friðrik Bergmann í apríl 1888 á næsta ári eftir að hún kom frá Íslandi. Þá var séra Friðrik prestur í Garðar byggð í Norður Dakota, en síðar flutti fjölskyldan til Winnipeg, þar sem hann gegndi kennara og prestsstöðu í mörg ár. Heimili þeirra var víðþekkt að innilegri gestrisni og hlýleik gagnvart þeim, sem þar dvöldu um lengri eða skemmri tíma og drjúgan þátt lagði hún til þess með sínu hógværa ljúflyndi. (Vide Árdís 1946).



*Laura Michaeline Bjarnason* F. 16 maí 1842 — D. 17. júní 1921.

Kona séra Jóns Bjarnasonar og hans óbrigðula stoð. Um hana hefir svo margt verið ritað að óþarfi er að ítreka það í þessari takmörkuðu grein. (Vide Árdís 1935).



*Guðný S. Frederickson* F. 29. okt. 1856 — D. 9. marz 1948.

Á leið að heiman frá föðurhúsum til Akureyrar, þaðan sem lagt var áleiðis til Ameríku árið 1873, voru gefin saman í hjónaband, Guðný og Friðjón Frederickson. Í Nýja Íslandi og síðar í Glenboro og Winnipeg voru þau hjón ávalt í broddi fylkingar í kirkju og öðrum velferðarmálum landa sinna. Hún náði hárri elli og lifði síðust þeirra, sem létu mynda sig saman, 1891.



*Halldóra Bardal* F. 1. júlí 1865 — D. 10. okt. 1943.

Til Nýja Íslands kom hún með foreldrum og systkinum árið 1876. Árið 1885 giftist hún sínum mæta manni, Páli S. Bardal og stofnuðu þau heimili, sem mörgum var kunnugt að gestrisni og glaðværð. Hún var meðlimur Fyrsta lút. safnaðar frá fyrstu árum og áhugasöm og starfsöm í kvenfélagi hans.

FLORA BENSON

## REBEKKA GUÐMUNDSDÓTTIR JOHNSON

Fallegt er það, og þarflegt af Árdís, að minnast frumbýlis kvennanna íslensku í Ameríku, því sögur þeirra margra, nei flestra, eru þannig, að þær eiga ekki aðeins rétt á að lifa, heldur getur saga Vestur-Íslendinga aldrei verið réttilega skráð, nema að þáttöku þeirra sé þar sanngjarnlega getið.



Rebekka G. Johnson

Ein af þeim eftirminnanlegu konum frá frumbýlingsárum Íslendinga í Canada, var Rebekka Guðmundsdóttir. Eftirminnanleg fyrir margra hluta sakir. Fyrir persónulegt atgjörfi, því, hún var tilkomumikil kona að vallarsýn, há, þrekvaxin, framganga hennar ákveðin, föst og prúðmannleg, andlitið svipmikið, greindarlegt og bar á sér fyrirmanns brag, þannig að hún vakti sérstaka athygli manna. Allt eru þetta kostir, stórir kostir en ekki einhlýtir ef á önnur manngildi skortir. En það var öðru nær, en að svo væri hjá Rebekku því hjá henni hélzt hið ytra atgjerfi, og innri verðleikar í hendur. Hún var greind kona, en greind hennar var frekar bundin athyglis gáfu, en andansleiftri. Viljaþrek hennar og hugrekki var óbilandi og þessa mannkosti sína notaði hún óspart í þarfir landa sinna á meðan kraftar hennar og lífsfjörið leyfði. Þau liggja víða um landnám Íslendinga í Manitoba, sporin hennar Rebekku Guðmundsdóttir og allstaðar eru þau hrein, skýr og áberandi. Hún og maður hennar, Jón Árnason frá Sveinsstöðum í Mývatnssveit, komu til Ameríku árið 1876 og settust að í Nýja Íslandi á bújörð sem þau nefndu Meiðavelli, eftir Meiðavöllum í Kelduhverfi á Íslandi, þar sem þau bjuggu frá 1864—1872, en síðustu fjögur árin þar heima bjuggu þau að Máná á Tjörnesi og þaðan

fluttu þau vestur um haf ásamt fjölskyldu sinni, eða þeim parti hennar sem ekki var farin á undan þeim, en það voru þau, Sigríður, Ari og Guðmundur. Aðkoma Rebekku og manns hennar í Nýja Íslandi árið 1876 var ekki glæsileg. Engin húsakynni, engir vegir, enginn bústofn og ofaná alla þá erviðleika bættist veturinn 1877, með bóluveikina sem geysaði um þessa nýstofnuðu byggð Íslendinga og hertók svo að segja hvert einasta heimili í henni

Það er undir þessum kringumstæðum og nálega óviðráðanlegu andstæðum að Rebekka fær eldskírn sína í Ameríku.

Hún var eina konan í byggðinni sem var lærð ljósmóðir og hafði nokkra æfingu í hjúkrunarstörfum, hvorutveggja hafði hún lært hjá Þórði Tomsyni lækni á Akureyri, og því líklegust persóna til hjálpar í þessum raunalegu og erviðu kringumstæðum nýlendu fólksins. Rebekka brást heldur hvorki vonum fólksins né heldur embættisköllun sinni og er til þess tekið enn í dag hve vel þessi Íslenzka kona reyndist þá í baráttu nýlendu fólksins við örbygð, dauða og örvænting. Nótt og dag var hún á ferðinni á meðal þess í vegleysum, vondu veðri og vetrar hörkum, að hjúkra, hughreysta og að lækna, og þeir vóru víst ekki margir þá í þeirri ungu en ósjálfbjarga byggð sem ekki dáðu og þökkuðu hina skörulegu en þó yfirlætislausu og óeigingjörnu framkomu Rebekku.

Árið 1881 fluttu þau Jón og Rebekka til Winnipeg, var Jón þá orðinn svo veikur að það varð að bera hann út í bátinn sem flutti þau til Winnipeg. Jón lést þar eftir tveggja vikna legu. Í Winnipeg hélt Rebekka áfram ljósmóður og hjúkrunar störfum þar til að fæðingarstofnanir og spítalar tóku þau alment að sér. En þótt hin lærða lífstaða hennar gengi þannig smátt og smátt úr hendi henni og í hendur hins opinbera, þá lét hún ekki, hugfallast. Lífsskoðun hennar og lífs þróttur leyfði slíkt ekki, því athafna þrá hennar var mikil og sú lífsskoðun staðföst að það væri blátt áfram synd gagnvart samfélagi því, sem maður væri félagi í og sínu eigin velsæmi að leggja árar í bát, var afar sterk hjá henni.

Hún bjó sér heimili við Young Stræti í Winnipeg þar sem hún rak ofurlitla verzlun í mörg á, auk þess tók hún róttækan þátt í málum og athafnalífi Íslendinga í borginni fram á svo að segja síðasta æfidag sinn, með einlægni, festu og rausn.

Rebekka var fædd á Litluströnd við Mývatn, 8. febrúar 1830.

Foreldrar hennar voru Guðmundur Pálsson af Brúargerðisætt og Rósa Jósafatsdóttir Finnbogasonar, Oddsonar bróður Sigurðar silfursmiðs á Ljósavatni.

Rebekka ólst upp hjá foreldrum sínum til tvítugsaldurs, en þá, árið 1850, 14. október giftist hún Jóni Árnasyni frá Sveinstöðum í Mývatnssveit, bróðir Jóns föður Sigurðar Jónsonar ráðherra frá Yztafelli.

Börn Rebekku og Jóns voru þessi:

Elzt þeirra var Sigríður fædd á Sveinsstöðum við Mývatn 25. júní 1851.

Ari, fæddur á Sveinstöðum 1853.

Guðmundur, fæddur á Helluvaði 9. september 1855.

Guðrún, kona Kristinns Stefanssonar skálds fædd á Helluvaði 14. júlí 1857.

Jónina Rebekka fædd á Helluvaði 5. december 1860 — dó á Meiðarvöllum 5 ára gömul.

Rósa fædd á Geirastöðum 19. janúar 1863.

Jónina Rebekka fædd á Meiðavöllum 2. október 1865.

Björg fædd á Meiðavöllum 18. júlí 1870.

Arni fæddur á Máná 2. október 1872.

Þorlákur fæddur að Máná 5. ágúst 1874.

Öll voru þessi börn mannvænleg og vel gefin, en náðu fæst mjög háum aldri eru að því ég bezt veit öll gengin grafar veg, nema Þorlákur, sem búsettur er í Winnipeg en það er hér stór hópur mannvænlegra barna barna þeirra Jóns og Rebekku, sem að minsta kosti sum sverja sig allgreinilega í ætt.

Eftir að börn Rebekku voru öll komin til mannskaps ára og höfðu gjörst athafna mikil á ýmsum sviðum frumbýlinga tímabilsins hér í Winnipeg tók Rebekka að sér tvö fósturbörn. Magnús Vilhelm Pálsson bróðurson þeirra vel þektu bræðra, Magnús og Vilhelms Paulson (Pálssona) velgefinn pilt eins og hann á ætt til, sem er enn á lífi og unga stúlku sem að Sigríður hét. Hún dó á meðan hún var enn á æsku skeiði.

Rebekka Guðmundssdóttir lést í Winnipeg 31. janúar 1913 og með henni hneig til moldar ein af hinum ógleymanlegu kvenhetjum frumbýlings áranna hér vestra.

**J. J. Bildfell**

## MARGRÉT Á REYNISTAÐ

Í Nýja Íslandi héldu menn nokkuð fast við hinn fagra íslenzka sið að gefa heimilum sínum nöfn. Þessvegna kýs ég þessa fyrirsögn.

Það fór ylur um sál mína þegar ég var beðinn að skrifa um hana. Það var vegna þess, að mér þótti sérstaklega vænt um hana. Viðkynning við hana var ljúf og farsæl. Ég hefi að vísu enga sérþekkingu til að segja frá stór um viðburðum, en fyrir þau kynni, sem ég hafði af henni í sambandi við starf mitt í Mikley, er mér sérstök ánægja að minnast hennar.



**Margrét Tómásson**

Ég leiði hana þá fram fyrir lesendur þessa rits með örfáum dráttum um uppruna og stöðu hennar. Nafn hennar var Margrét. Foreldrar hennar voru þau hjónin Þórarinn Einarsson frá Klifshaga í Axarfirði, í Þingeyjarsýslu, á Íslandi, og Rósa Vigfúsdóttir frá Birgi í Kelduhverfi. Margrét var fædd að Vestaralandi í Axarfirði, 9. ág. 1841. Hinn 25. jan. 1876 giftist hún Helga Sigurði Tómássyni frá Hermundarfellsseli í Þistilfirði. Þetta sama sumar fluttust þau, með stóra vesturfarahópnum, til Ameríku; fóru til Nýja Íslands og tóku sér bólfestu í Mikley. Sjö fyrstu árin þar höfðu þau ekki varanlegan samastað, dvöldu á ýmsum bæjum; en þetta breyttist árið 1883. Þau námu þá land og fluttu á það 18. apríl. Sagt er, að Margrét hafi fundið þar Reyniviðarhríslu, sem henni þótti mjög falleg. Ekki vil ég staðhæfa, að þetta hafi ráðið valinu á bújörðinni, því óefað hafa fleiri atriði komið til athugunar, en ekki mun hríslan hafa spilt til, og víst er um það, að hún vísaði Margréti á nafn fyrir bæinn hennar. Hún nefndi hann Reynistað, og því nafni heldur bærinn enn. Þetta atvik minnir mig á smala-

dreng uppi í fjalli á Íslandi, sem eitt sinn fann litla Reyniviðarhríslu og varð hrifinn af fegurð hennar.

Þau hjónin bjuggu á Reynistað til dauðadags. Ég þekkti þau ekki fyrr en ég fór til Mikleyjar til að prédika þar, árið 1900. Mikley varð svo nokkur hluti af prestakalli mínu, í upphafi ársins 1901. Um átta ára skeið þjónaði ég þar og átti ferðir þangað sumar og vetur, og á þeim ferðum gisti ég ávalt á Reynistað. Þangað var gott að koma. Endurgjaldslaust var mér látið alt í té, til aðstoðar, sem unnt var að veita.

Helgi var fatlaður maður frá æsku, en með elju og hyggindum ruddi hann sér braut til sjálfstæðis og farsældar. Hann lét jafnvel gjöra bryggju fyrir framan bújörð sína, þar sem skipin, er fóru um vatnsins veg, gátu lent.

Ekki voru sérstaklega stór húsakynni hjá þeim hjónum, þegar ég fyrst kom til þeirra. Íveruhúsið var allstórt bjálkahús, með lofti og eitt sérstakt herbergi við suðurstafninn, loftlaust. Áður en Helgi dó var búið að reisa stórt íveruhús. Á heimili þessu var pósthús. Þangað kom ekki einungis fólk úr eyjunni, heldur einnig allmargt ferðamanna að vetrinum, sem voru að flytja fisk eða aðrar vörur. Þau hjónin höfðu annað hús rétt við hliðina á íveruhúsinu, sem stundum var notað til að hýsa gesti, og það voru stundum ótrúlega margir gestir, sem hýstir voru á þessum bæ.

Yfir öllu þessu ríkti húsfreyjan og sómdi sér vel með afbrigðum. Til allrar vinnu var hún ötul og ósérhlífin og stjórnsemi hennar var í bezta lagi. Hörð vinna var hlutskipti hennar frá barndómi. Manninum sínum veitti hún ómetanlega aðstoð. Erfiði og erfiðleikar setja oft dapra skýlu á menn og konur, en það var ekki tilfellið með Margréti. Fólki, sem kom á heimilið mætti hún með djúpri alúð og björtum fögnuði. Lífið fyrir henni var þrungið af sælu og birtu. Fáa menn eða konur hefi ég hitt á lífsleiðinni, sem eins vel og hún lifðu eftir þessu boði postulans: „Verið ávalt glaðir í Drotni: ég segi aftur verið glaðir. Ljúflyndi yðar verði kunnugt öllum mönnum. Drottinn er í nánd“. Frelsarinn sjálfur birtir oss sömu hugsunina með þessum orðum: „Þannig lýsi ljós yðar mönnunum. Guði helguð sál hefir ljós frá honum“, og sönn, hrein gleði er í því ljósi. Margrét var ljós á heimili sínu, ljós sannfæringar um lifandi kristindóm, ljós ánægju í störfum og umhverfi, ljós heitrar elsku til ástvina sinna, ljós hjálpsemi og velvildar

eftir því sem henni var unnt að veita, á heimilinu og í byggðinni. Dagfar hennar átti djúpar rætur í Guðsvígðu sálarlífi. Hún elskaði „Guð og þann, sem hann sendi, Jesúm Krist". Þessvegna var einlægnin svo ótvíræð, vinsemdin svo hrein, framkoman svo aðlaðandi. Hún flutti fólki ylríkan fögnuð. Þangað var gott að koma.

Þessari ljúfu konu var veittur mikill styrkur. Hún hafði ákveðnar skoðanir, sterka sannfæringu, fasta stefnu, óbrigðult þol í raunum, heilbrigt afl til framkvæmda, sigurmátt í fjallgöngu lífsins. Hún barðist „trúarinnar góðu baráttu". Af alhug studdi hún kristna kirkju og liðsinti velferðarmálum byggðar sinnar.

Börn þeirra hjóna voru fjögur. Kristín Þóra varð kona Vilhjálms Sigurgeirssonar prests á Grund í Eyjafirði. Hún dó 1907, en Vilhjálmur 1924. Rósa Elínborg dó á fjórða ári. Tveir synir lifa: Kristján, kvæntur Sigþóru Þorláksdóttur, ættaðri úr Axarfirði og Gunnar, kvæntur Kristínu Kristmundsdóttur. Báðir eru þeir útgerðarmenn í Mikley. Kristín, kona Vilhjálms, var mikilhæf og listfeng kona, og báðir eru synirnir hinir nýtustu menn.

Manninn sinn missti Margrét 27. júlí 1909; en nytsemdarferill hennar hélt áfram. Nokkur síðustu ár æfinnar, var hún hin eina manneskja á lífi, þeirra, sem settust að í Mikley 1876. Hún var kölluð héðan burt til æðri heimkynna 1. júlí 1928, og vantaði þá ekki nema liðugan mánuð til þess hún yrði 87 ára.

Andi hennar og ævistarf flytja mig að þessu stefi:

*„Ó, hversu mjög er ætíð sælt að eiga*
*sér opinn glugga móti lífsins borg,*
*og heim í ljósið horfa sífelt mega*
*úr heimsins myrkri, glaumi, stríði, sorg".*

RÚNÓLFUR MARTEINSSON



# KARÓLÍNA SOFFÍA SNÆDAL

**F. 19 januar 1856 — D. 21. februar 1947**

Ein af þeim mörgu merku konum, sem framarlega stóðu í fylkingu íslenzkra frumbyggja vestan hafs, var Karólína Soffía Snædal. Yfir minningu hennar verður jafnan bjart í hugum þeirra, sem þektu hana bezt og voru svo lánsamir að njóta hjúkrunar og hjálpar frá hennar hendi þegar veikindi báru að.



**Karolina Soffía Snædal**

Karólína var fædd á Jökuldal í N. Múlasýslu 19. jan. 1856. Hún ólst upp hjá foreldrum sínum til fullorðins ára. Af móður sinni lærði hún snemma að hjúkra veikum, einkum sængur konum. Með þeirri undirstöðumentun og lestri íslenzkra lækningabóka, byrjaði hún svo nám í skóla reynslunnar og leið ekki á löngu áður en hún varð svo fær í þeirri list að hlynna að veikum, að ekki tókst mörgum betur, sem að útskrifast höfðu af skólum þessa lands.

Árið 1876 flutti Karólína frá Íslandi ásamt manni sínum, Eyjólfi Jónssyni Snædal frá Hjarðarhaga á Jökuldal, og ungri dóttur. Settust þau fyrst að í Nýja Íslandi, en fluttu þaðan til Winnipeg, þar sem þau dvöldu um tíma. Þegar íslenzkt landnám hófst í Argylebyggð voru þau með þeim fyrstu, sem þangað fóru, árið 1882.

Karólína missti mann sinn árið 1898, og stóð hún þá ein uppi, efnalítil með sjö börn. Flutti hún þá í smábæinn Baldur og átti fjölskyldan þar heimili í mörg ár.

Alt frá fyrstu landnámsárum var leitað til Karólínu Snædal þegar veikindi bar að höndum. Aldrei átti hún svo annríkt, að hún ekki færi í hvaða veðri sem var til þess að hjúkra og hjálpa nágrönnum sínum, og var maður hennar henni samhentur í því starfi, því hvorugt þeirra mátti neitt aumt sjá svo að þau ekki legðu fram krafta sína til að liðsinna eftir mætti. Börnin, sem hún tók á móti um æfina skiptu eflaust fleiri hundruðum, auk fjölda sjúklinga, sem hún annaðist, oft endurgjaldslaust þegar fátækt fólk átti í hlut. Hjúkrunarstarfið var Karólínu bæði eðlilegt og kært, og hún hafði þá frábæru læknisgáfu að geta grætt og hresst sjúklinga sína bæði á sál og líkama. Hún var fram úr skarandi vandvirk og nærgætin ljósmóðir, kjarkmikil, fljót og úrræðagóð, svo að oftar en einu sinni bjargaði hún sjúklingum frá bráðum dauða með snarræði sínu. Hún ávann sér traust og tiltrú sjúklinga sinna, og æfilanga vináttu margra þeirra, því hún var verulega trygglynd og einlæg við þá, sem hún festi vinskap við. Börn og unglingar höfðu mætur á henni, því hún skildi barnseðlið flestum betur og hafði gott lag á að finna það góða í fari þeirra.

Karólína kunni vel að meta íslenzkar bókmenntir. Hún hafði mikla unun af íslenzkum ljóðum og kunni margt af þeim. Glaðlynd var hún og víðsýn í skoðunum, sem hún gat sett fram með einurð og skarpleik í samræðum; skemtin og alúðleg við gesti sína og sérlega höfðingleg heim að sækja.

Síðustu ár æfinnar var hún rúmföst, og naut þá aðhlynningar á heimili góðra vina sinna í Baldur. Farin að heilsu, lömuð og þreytt eftir margskonar mótlæti og þungar raunir, fékk hún rólegt andlát í svefni 21. febrúar 1947, og hafði þá fyrir stuttu misst elzta son sinn, það seinasta af tíu mannvænlegum börnum, sem hún hafði orðið á bak að sjá.

Vinir Karólínu Snædal munu ávalt minnast hennar með virðing og þökk. S. S.

   

*Fögur er foldin*
*heiður er Guðs himin*
*yndæl pílagríms æfigöng.*

# INGIBJÖRG BJÖRNSDÓTTIR FRÍMANNSSON

„Eðlilegust og fullkomnust persóna er sú, sem leggur einlæga rækt við beztu eiginleika sína, sér og samfélagi sínu til þroska og betrunar“. Ég á engin orð til, sem lýsa Ingibjörgu Björnsdóttur betur, en þessi orð Elízabeth Willard Frances, að því er lífsstefnu hennar snertir. Allur lífsferill hennar, frá því, að ég þekkti hana fyrst fyrir 55 árum síðan og fram á hinstu æfistund, miðaði að einu og sama marki, að þroska og betra sig sjálfa og samfélagsfólk sitt. Ekki kann ég að meta áhrifin, sem að hún hafði á samtíðar og samfélagsfólk sitt. Það getur enginn. Þau áhrif eru eins og lífræn frækorn, sem eiga eftir að vaxa og bera ávöxt, máske um ókomnar aldaraðir. En um hana sjálfa persónulega er öðru máli að gegna, og um áhrif þau, er þessi lífsaðstaða hennar og bjargfasta lífsstefna hafði á hana sjálfa, mætti rita langt mál og væri hvorki óþarft né heldur ófróðlegt, því Ingibjörg var sérstaklega merkileg kona. En hér eru engin tök á því, fyrir þá skuld, að mál mitt má ekki taka út yfir meira en eina blaðsíðu í Árdísi.



Ingibjörg B. Frímannsson

Í öllu var Ingibjörg Björnsdóttir hafin yfir meðalmenskuna. Hún var vel vaxin, meira en meðal kvenmaður á hæð, fríð sýnum og glæsileg að vallarsýn, þó að hún sjálf virtist ekkert af því vita og var það einn af hennar mörgu kostum.

Skapgerð hennar var rík og stórgerð nokkuð og sór hún sig þar í ætt til sumra af ættfeðrum sínum og systrum, en hún fór svo vel með þá skapgerð — tamdi hana svo, að ókunnugir urðu hennar sjaldan varir, eða fengu á henni að kenna, þó að þeir, sem

þektu hana vel, sæju henni bregða fyrir í svipbrigðum hennar og augnaráði.

Hún var prýðilega skýr kona og kunni vel að meta menn og málefni, og tók einlægan og ákveðinn þátt í málum þeim, sem hún áleit mestu varða. Las mikið, einkum á yngri árum og reyndar alla æfi sína, góðar íslenzkar bækur, sérstaklega ljóð eldri íslenzku skáldanna og hafði næman smekk fyrir fögru máli og hreinum hugsunum og ann hvorutveggja heilhuga.

Trygg og vinföst var hún svo að það þurfti meira en lítið að koma fyrir til þess að hún riftaði trausti sínu, eða sliti vinabönd, sem hún einu sinni hafði fest.

Hún var dagfarsprúð kona, fálát og orðvör og stundaði hússtjórn sína með hinni mestu prýði.

Ingibjörg Björnsdóttir Frímannsson var fædd í Finnstungu í Húnavatnssýslu á Íslandi 26. júní 1861. Foreldrar hennar voru Björn Ólafsson, (bróðir séra Arnljóts Ólafssonar) og kona Björns, Anna Lilja Jóhannsdóttir. Ingibjörg ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hún flutti vestur um haf og til Winnipeg árið 1891.

Árið 1895 kvæntist hún Benedikt Frímannssyni frá Vatnsenda í Húnavatnssýslu, mesta gáfu og myndarmanni og bjuggu þau í Winnipeg þar til árið 1898 að þau fluttu til Gimli í Manitoba, þar sem þau áttu prýðilegt heimili og Benedikt stundaði kjötverzlun í 19 ár unz hann lézt 1. nóv. 1917. Eftir fráfall manns síns bjó Ingibjörg áfram á Gimli þar til að hún flutti til dóttur sinnar, Óskar Lovísar Fenton í Struthers, Ohio í Bandaríkjunum, þar sem að hún dvaldist unz hún lézt 11. júní 1945.

Þeim Ingibjörgu og Benedikt varð einnar dóttur auðið, Óskar Lovísar. Lærði hún hjúkrunarfræði og kvæntist síðar Ray W. Fenton lækni frá Struthers í Ohio ríkinu í Bandaríkjunum. Mesta myndar og mannkosta kona. Eina fósturdóttur ólu þau Ingibjörg og Benedikt upp, Irene Arnljótsdóttur. Nú, frú H. S. Smith í Powell River B. C.

*J. J. B.*

   

# Kallaðar heim

## OVÍDA SWAINSON

**F. 1. maí 1870 — D. 11. marz 1949**

Hún var fædd að Sauðanesi á Ufsaströnd í Eyjafjarðarsýslu á Íslandi. Foreldrar hennar voru þau Jóel Jónasson og Dorotea Friðrika Loftsdóttir. Var hún alin upp hjá móðurbróður sínum Jóni Loftssyni, og konu hans, Ovídu Jónasdóttur, föðursystir sinni í Hvammi í Höfðahverfi, Suður Þingeyjarsýslu. Þar giftist hún Sveini Sveinssyni frá Hóli, 17. maí 1889. Reistu þau bú þar í sveitinni, og dvöldu þar fram á sumarið 1893 er þau fluttust til Winnipeg,, Ovída var fríð kona og tíguleg í allri framkomu. Hún var góðum gáfum gædd, og margfróð, einkum um íslenzk efni. Ljóðræn mun hún hafa verið og kunni mikið af kveðskap, bæði fornum og nýjum. Þrátt fyrir fátækt og frumbýlingskjör, mun hún hafa verið miklu fremur veitandi en þiggjandi lengst æfi sinnar. Er það enn í minnum haft meðal eldra fólks að heimili hennar hafi jafnan staðið opið íslenzkum innflytjendum fyr á árum. Var þá veitt eftir föngum, án tillits til endurgjalds, enda mun sjaldan hafa verið um slíkt að ræða. Kom þar fram í fari hennar sá höfuðkostur sem jafnan hefir einkennt Íslendinga mörgum öðrum þjóðum fremur: hjálpsemi við þá sem hafa minna en þeir sjálfir, og gestrisni.



**Ovída Jónasdóttur**

Sem vott um framtak hennar og dugnað má geta þess að um margra ára skeið starfrækti hún hattaverzlun fyrir konur, og fórst það vel úr hendi. Einnig var hún frumkvöðull að stofnun hannyrðafélags meðal Vestur-íslenzkra kvenna.

Þeim hjónum, Sveini og Ovídu varð sex barna auðið; þrjú þeirra dóu í bernsku, tvö á æskualdri, en ein dóttir Ida lifir, á hún heima að 16 Queens Apts., Winnipeg. Stundaði hún móður sína af frábærri alúð í löngu sjúkdómsstríði hennar, enda var mikið ástríki með þeim mæðgum.

Ovída var hress og glaðleg alt til hinztu stundar. Henni þótti vænt um lífið, en hún óttaðist ekki dauðann. Enda þótt henni væri fullljóst að vistaskiftin stóðu henni nærri talaði hún að jafnaði ekki mikið um þau mál, enda átti hún þá sannfæringu að dauðinn er í sjálfu sér ekki til. Það sem við nefnum „dauðann" var henni aðeins þáttaskifti í þróun lífsins. Um það bera vott síðustu orðin sem hún talaði við dóttur sína, er hún gat þess að nú mundi hún brátt sofna „síðasta blundinn" og flytja „á annað heimili." Koma þessi orð mjög vel heim við ummæli frelsarans um þetta efni, enda var Ovída heitin ótvírætt vel kristin kona.

Hún var jarðsungin frá kirkju sinni, Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg, sem hún hafð ávalt tilheyrt, á mánudaginn 14. marz að viðstöddu fjölmenni. Sakir hrörleika var manni hennar, sem nú á heima í Arborg, ekki unt að fylgja henni til grafar, en þau höfðu kvaðst hinzta sinni, eins og þeim var báðum ljóst, skömmu áður, er hann kom í heimsókn til þeirra mæðgna.

Her many dear unselfish traits
She showed day after day.
Will live in treasured memories
That will not pass away.
And many lives will be more blessed
Because they've, known a while
The beauty of her character.
The sweetness of her smile.

   

# GUÐRÚN ÓLAFSDÓTTIR JOHNSON

**F. 5. febrúar 1868 — D. 13. desember 1947.**

Á milli ofangreindra dagsetninga er þjappað hart nær áttatíu ára æfisögu. Það er þá heldur ekki margbrotin saga, og lítill er æfintýraljóminn yfir henni. Það er saga frumbýlingskonu, sem yfirgaf ættland sitt mót vilja sínum. En hún einsetti sér þá þegar að líta ekki aftur. Hún gleymdi sjálfri sér í önnum og striti dagsins; hún fórnaði kröftum sínum fyrir bú sitt og börn, og í ellinni naut hún þeirrar gæfu að sjá nokkra ávexti elju sinnar.



**Mrs. Guðrún O. Johnson**

Hún var fædd að Stóru Hvalsá í Hrútafirði, og ólst upp í þeirri sveit. Snemma hneigðist hún til náms, en til þeirra hluta voru fá skilyrði á þeim dögum fyrir börn alþýðumanna. Samt heppnaðist henni að sækja Ytri Eyjar skóla í tvo vetur, og þótti það mikið nám. Nokkur næstu árin var hún barnakennari í heimasveit sinni. 4. júlí 1895 giftist hún Guðbjarti Jónssyni, Magnussonar pósts, frá Hróa í Steingrímsfirði. Aldamótaárið fluttust þau vestur um haf, og settust að í Mouse River byggðinni í Norður Dakota, og bjuggu þar á fremur lélegu landi, og oft við kröpp kjör, um nærri þrátíu ára bil. Síðar fluttust þau til þorpsins Upham, og þar lézt Guðbjartur, 24. júlí 1939.

Þau hjón áttu sex börn, og eru þau öll á lífi er þetta er ritað, nema næst elzti sonurinn, Jón, sem lézt 1918. Tveir sona þeirra

eru lögfræðingar, Níels í Bismarck, N.D. og Einar í Lakota í sama ríki. Tveir eru læknar, þeir Olafur og Kristján í Rugby, N.D. Einkadóttirin, Thorunn Lilja, er kona séra Valdimars J. Eylands í Winnipeg. Einnig lætur hún eftir sig fjórtán barnabörn, og margt frænda á Ísland.

Frá því er Guðbjartur lézt hefir Guðrún heitin jafnan dvalið hjá dóttur sinni á vetrum. Hefir hún þannig eignast marga kunningja í borginni. Hún var að eðlisfari glaðvær og félagslynd kona, og tók á sinni tíð mjög virkan þátt velferðamálum sveitar sinnar. Hún var viðstödd á stofnþingi Bandalags lúterskra kvenna í Selkirk, árið 1925, og hafði jafnan síðan áhuga fyrir málum þessa félags.

Síðustu mánuðina naut hún aðhlynningar sona sinna á **Good Samaritan** spítalanum í Rugby, og þar lézt hún. Hún var jörðuð við hlið manns síns og sonar í fjölskyldugrafreit Mouse River sveitarinnar, skammt frá bújörð þeirrar hjóna. Starfi þeirra er lokið, en minning þeirra lifir. *V. J. E.*

   

# ANNA ÓLAFSSON

**5. maí 1855 — 27. október 1948**

„Frú Anna var mikil kona að vallarsýn, og tíguleg í fasi; hún var óvenjulega fagurvaxin kona, sem engir erfiðleikar, engar eldraunir gátu beygt í baki.“

Þannig farast Einari Páli Jónssyni ritstjóra orð, er hann minnist Önnu heitinnar, í „Lögbergi“, 25. nóvember 1948, og munu allir kunnugir viðurkenna að ummæli hans eru makleg og sönn, og að þau eiga við bæði að því er snertir ytra útlit og andlegt atgervi þessarar mætu og vinsælu konu.



**Anna Ólafsson**

Anna var fædd á Bygggarði á Seltjarnarnesi. Foreldrar hennar voru Sveinbjörn Guðmundsson, og Petrína Regina Rist. Faðir hennar mun hafa drukknað áður en hún fæddist, og var hún því ung fengin Asgeiri Möller að Læk í Melasveit til fósturs. Þar ólst hún upp, og giftist fyrra manni sínum Olafi Arnasyni; settust þau að á Akranesi.

Eftir fárra ára sambúð misti Anna mann sinn frá fjórum börnum. Síðar giftist hún Jónasi Ikkaboðssyni, ættuðum úr Dalasýslu. Fluttust þau vestur um haf, árið 1911, og lézt Jónas ári síðar, og stóð Anna þá eftir ekkja í annað sinn, með hóp af ungum börnum.

En þrátt fyrir stór högg dauðans, missir eiginmanna og nokkurra barna sinna, bar Anna sig eins og hetja, og alt fór vel. Börn hennar sem lifa af fyrra hjónabandi eru: Einar kaupmaður á Akranesi, Petrína Regína, búsett í Winnipeg. Af síðara hjónabandi eru þessi: Halldóra, Benedikt og Helga öll búsett í Winnipeg, og Sveinbjörn, prestur, í Duluth, Minnesota. Síðustu árin dvaldi hún

hjá Helgu dóttur sinni, og manni hennar Jóni T. Arnasyni á 648 Victor Street, Winnipeg, og þar lézt hún eftir stutta legu.

Anna heitin var gædd hetjulund. Hún var vinsæl, og hafði vakandi áhuga fyrir öllum málum samtíðarinnar, einkum hvað Ísland snerti. Hún háði baráttu sína með sóma, og skilur börnum sínum eftir góða arfleifð í manngildi sínu og æfisögu. *V. J. E.*

   

## LÁTIN UM ALDUR FRAM

Þessi gjörvulega og ágæta kona, sem hér getur, frú Sigurbjörg Bilsland, var fædd í Reykjavík 10. júlí árið 1900. Hún var dóttir þeirra Sigurðar Þórðarsonar og Guðríðar konu hans, eru bæði enn á lífi og búsett á Gimli; frú Sigurbjörg kom til Winnipeg laust eftir fermingaraldur, og tók snemma að ryðja sér eigin braut; hún bjó yfir faðmvíðum mannkostum, er svipmerktu líf hennar til daganna enda; í tómstundum sínum iðkaði frú Sigurbjörg hljóðfæraslátt; hún var hljómnæm og hafði ósegjanlegt yndi af tónum. Þann 26. okt. 1929 giftist Sigurbjörg eftirlifandi manni sínum, John David Bilsland og voru samfarir þeirra hinar beztu. Frú Sigurbjörg átti hið kirkjulega heimili sitt í Fyrsta lúterska söfnuði og starfaði í yngra kvenfélaginu af miklum trúnaði, eins og raunar í hvaða verkahring, sem var; hún lézt að heimili sínu 960 Sherburn Street hér í borg þann 26. janúar síðastliðinn og var jarðsunginn af séra Valdimar J. Eylands.



**Mrs. Sigurbjörg Bilsland**

Frú Sigurbjörg var harmdauði þeim öllum, sem átt höfðu því láni að fagna að kynnast henni og eiga hana að vini. *E. P. J.*

# ANNIE HOLO DEWITT

1869 — 1949

Annie Holo Dewitt var fædd í Ottertail, Minnesota árið 1869. Foreldrar hennar voru Mr. og Mrs. Butler Olson Holo. Þau fluttu frá Minnesota og bjuggu í mörg ár í Akra-byggðinni. Um það leyti sem Íslendingar voru að hugsa um að taka sér bólfestu í North Dakota, þá reyndust þessi hjón þeim mjög vel, og vildu alt fyrir þá gjöra. Árið 1888 tóku þau sig upp enn á ný og fluttu til Mordenbyggðar, og hér í sveitinni var heimili þeirra ætíð síðan. Annie sáluga giftist skömmu eftir að þau komu hing að Mr. Wm. Dewitt. Hann dó fyrir nokkrum árum. Börn þeirra eru þrjú: Oscar Dewitt, Alliance, Alta, og Violet Anderson og Olive Erickson, báðar í California.



Annie Holo Dewitt

Annie sáluga var trygg og góð kona. Hún talaði íslenzku dável, þó norsk væri og sýndist hafa ánægju af því að hlynna að íslenzkum félagsskap. Hún var sívinnandi á meðan kraftarnir entust og þó að margt erfitt mætti henni á lífsleiðinni, þá var hún síglöð og treysti á mátt hins góða.

Einn bróðir og fjórar systur lifa hana Wm. Holo, Winnipeg, Mrs. J. A. Campbell, Wales, N.D., Mrs. M. Johnson, Thornhill, Man., Mrs. I. Huget, Morden og Mrs. J. Cowan, Winnipeg.

Hún andaðist á sjúkrahúsinu í Morden eftir stutta legu 13. apríl 1949 og var jörðuð í íslenzka grafreitnum. L. T. G.

# KRISTJANA MAGNÚSSON

**F. 7. marz 1870 — D. 9. janúar 1949.**

Kristjana Benediktsdóttir Magnússon var fædd á Einarsstöðum í Kræklingahlíð við Eyjafjörð á Íslandi. Foreldrar hennar voru þau Benedikt Jónasson og Ingibjörg Kristjánsdóttir bæði ættuð frá Hvassafelli í Eyjafirði.



**Kristjana Magnusson**

Til Ameríku kom hún 1892, eftir stutta dvöl í Winnipeg flutti hún til N. Dak. Þann 29. júní 1894 giftist hún Pétri J. Magnússyni. Áttu þau heima í N. Dak. til 1901, að þau fluttu til Nýja Íslands og settust að í Árdalsbyggðinni, sem þá var stofnuð af Dakota-búum. Bjuggu þau á heimilisréttarlandi sínu þar til Kristjana flutti til Árborg 1929 til Sigurlaugar dóttur sinnar. Þar dvaldi hún þar til hún var kölluð til betri heimkynna.

Mann sinn missti hún 1914, en bjó með börnum sínum á landinu meðan kraftar leyfðu. Börn þeirra eru: Kristján Sigurður kvæntur Friðriku Erlendson, Karl Kristberg kvæntur hérlendri konu, Sigurlaug gift David Guðmundssyni, Guðmann, fórst í stórhríð á Winnipegvatni 26. nóv. 1929, Einar kvæntur Vilhelmínu Sigurdson, Jósteinn, ógiftur, sem var mest af tímanum hjá móður sinni.

Kristjana sáluga var hin mesta gæðakona, var heimilið ávalt hennar ríki. Hún unni kirkju sinni og var meðlimur Kvenfélags Árdalssafnaðar til dauða dags.

Fyrsta heimili hennar á „Bakka“ var aðlaðandi og ríkti þar ávalt góðvild og gestrisni til allra, sem báru að garði. Var þar oft

glatt á hjalla, þegar unglingarnir úr nágrenninu mættust þar til að skemta sér. Hún var ávalt með í þeim hóp, ef bústarfsannir leyfðu. Bar fundum okkar sjaldan saman á seinni árum, svo ekki bærist samtalið að „Bakka“. Þaðan voru hennar sælustu endurminningar.

Kristjana sáluga var yngsta móðirin, sem settist að á bökkum Íslendingafljóts í Árdalsbyggð 1901. Kom hún með 4 ung börn, og hjartað fullt af þrá eftir bjartri framtíð fyrir börn sín í þessu ónumda landi. Munu sum sporin hafa verið ærið þung, en samt bar hún það alt með rósemi, hógværð og bæn til Guðs um kraft til þess að bera þær raunir, sem hún þurfti að líða. Mun sá kraftur hafa stutt foreldra okkar allra í landnámi þessarar farsælu byggðar. Virðist það vel viðeigandi, að Kristjönu var leyft að vera sú síðasta af þessum landnemahóp að hverfa heim.

Með henni er fyrsta kynslóð íslenzkra landnema í Árborg fallin í valinn, önnur kynslóð farin að eldast, sú þriðja tekin til starfa og sú fjórða að vaxa upp. Það fennir í sporin, sem fyrst voru gengin, en minningarnar lifa.

Síðustu ár hennar var hún blind, en auðlegð sálar hennar gjörði bjart í kringum hana. Hún naut ástúðar og virðingar barna og barnabarna sinna í ríkum mæli. Við, hennar mörgu vinir, geymum endurminningar um samstarf og þökkum fyrir hennar lausn, því dagurinn var orðinn langur og hvíldin kærkomin.

Blessuð sé minning þín, kæra vina.

ANDREA JOHNSON

   

# MIKILHÆF KONA HNIGIN Í VAL

Með frú Kristjönu Chiswell er hnigin í val stórbrotin og mikilhæf kona, er með glæsimensku og styrkum persónuleika svipmerkti um langt skeið íslenzka mannfélagið vestan hafs; hún var fríð sýnum og óvenju aðsópsmikil kona; hún bjó yfir margþættum gáfum og beindi þeim jafnan í þann farveg, er til heilla horfði; baráttumálum sínum, svo sem bindindismálum og viðhaldi íslenzkrar tungu í þessari álfu, helgaði frú Kristjana óskipta krafta og hlífði sér lítt.



**Mrs. Kristjana Chiswell**

Frú Kristjana var fædd að Skálanesi við Seyðisfjörð á aðfangadag jóla 1862. Voru foreldrar hennar Hans Friðrik Ágúst af þýzkum ættum og Guðrún Ólafsdóttir.

Árið 1886 fluttist frú Kristjana vestur um haf og giftist 17. ágúst 1904 Walter Joseph Chiswell starfsmanni Canadian Pacific járnbrautarfélagsins; hann féll í fyrri heimsstyrjöldinni. Frú Kristjana var um langt skeið búsett á Gimli, en dvaldi nokkur síðustu æviárin í Winnipeg og þar lézt hún 15. október í fyrra og var jarðsungin að viðstöddu miklu fjölmenni frá Fyrstu lútersku kirkju þremur dögum síðar af séra Valdimar J. Eylands.

Frú Kristjana naut ósegjanlegs yndis af ljóðum og var laglega hagmælt.

*E. P. J.*

# ÞÓRA (THORA) FREDERICKSON

1893 — 1948

„Hví er nú visnuð vangarós
og viðkvæm stirnuð mund,
Hví er nú brostið brúnaljós
Er blikaði skært um stund
Hví er nú sofinn svipur hreinn
og saklaust hjarta kalt.
Ég veit það ei, þú veist það einn
sem veist í heimi alt".



Þóra (Thora) Frederickson

Þessi mæta og vinsæla kona andaðist að heimili sínu í Glenboro, Man., 17. des. 1948. Hafði verið rúmföst tæpan mánuð. Hún var aðeins 55 ára gömul og mátti teljast í blóma lífsins. Þóra sál. var fædd í Hólabyggðinni norð-austur frá Glenboro 1893. Hún ól allan sinn aldur í þessu umhverfi, utan árs eða svo er hún átti heima í Winnipeg nálægt aldamótunum.

Foreldrar hennar voru Jón Sigurðsson frá Hvalsá í Hrútafirði listasmiður dáinn í Winnipeg 29. marz 1899 og kona hans Sigríður Helgadóttir Hallgrímsson frá Kristnesi í Eyjafirði dáin 2. nóv. 1934. Þóra giftist 1916 Friðrik Frederickson, sem um langt skeið hefir verið stórkaupmaður í Glenboro. Er hann sonur F. S. Frederickson, er var einn af fyrstu landnámsmönnum Argylebyggðar og fyrri konu hans Sigríðar Jónsdóttur Bergvinssonar. Þóra var fríð kona, svipmikil og

tíguleg sem húsfreyja, móðir og eiginkona var hún í fremstu röð. Hjónabandið var fyrirmynd og heimilislífið sem bezt getur verið. Í íslenzkum félagsskap tók hún virkan og einlægan þátt. Hún var ætíð lifandi kvistur á meið íslenzka kvenfélagsins og vann þar jafnan af ötulleik og trúmensku og dró sig aldrei í hlé. Hún var yfirlætislaus og sótti lítt eftir metorðum. Auk eiginmannsins syrgja hana þrjú börn: Verna (Mrs. H. Wilton) Sinclair, Man., Elvína heima og Allan, sem vinnur við verzlun föður síns í Glenboro. Turner, sem var elztur af systkinunum, og vann sér mikinn orðstýr sem flugmaður í stríðinu mikla var skotinn niður yfir Þýzkalandi eftir 27 flugferðir yfir óvinalöndin; var við fráfall hans að móðurinni kveðinn mikill harmur sem og að allri fjölskyldunni. Á lífi eru tvær systur, Mrs. Lipsett, Kelowna B. C. og Olga í Glenboro, og tveir bræður, Otto, sem er hluthafi í Frederickson's verzluninni, og Victor Arthur einnig í Glenboro.

Þungur harmur er kveðinn að eiginmanni, börnum og öðrum ástvinum hennar, en það er líka skarð fyrir skildi í ísl. félagsskap í Glenboro við fráfall hennar. En minnig hennar verður geymd með virðingu í hug og hjarta allra þeirra, sem að þekktu hana bezt.

G. J. OLESON



# MRS. SIGRÍÐUR JOHNSON

Hún var fædd á Sæunnarstöðum í Húnavatnssýslu árið 1874. Foreldrar hennar voru Jóhann Jónsson og Jóhanna Þorbergsdóttir; fluttist Sigríður með foreldrum sínum til Canada, þegar hún var á fyrsta árinu, var hún yngst systkina sinna, sem munu hafa verið fimm, nú öll dáin. Var fjölskyldan eitt ár í Ontarío, en fluttist til Gimli með fyrstu landnemunum, sem þangað fóru 1875. Þar dó Jóhann ári síðar. Fluttist ekkjan skömmu síðar til Winnipeg með börn sín og mun fjölskyldan hafa átt þar heima að mestu leyti síðan. Samt dvaldist Sigríður nokkur ár í Seattle og Bellingham, Wash., en kom aftur til Winnipeg 1919 og var þar jafnan síðan.



**Mrs Sigríður Johnson**

Hún giftist Páli Johnson árið 1924, ágætum manni, ættuðum úr Húnavatnssýslu á Íslandi. Hann var þá ekkjumaður og átti þrjá syni á unga aldri, og gekk Sigríður þeim í móðurstað. Páll dó 1930.

Sigríður Johnson dó 7. marz 1949, 75 ára að aldri, og var jarðsett 9. s.m. frá Fyrstu lútersku kirkju, sem hún hafði tilheyrt um langt skeið og stutt með trúmensku og einlægni. Hún var meðlimur Kvenfélags Fyrsta lúterska safnaðar.

Til frekari upplýsinga um Mrs. Johnson má geta þess, að það, sem sérstaklega einkendi hana var hógværð og framúrskarandi trúmenska í einu og öllu.

Hún var greind kona og vel að sér til munns og handa og afkastaði miklu verki, sem alt var unnið í kyrþey. — Hér er góð kona til grafar gengin, sem ávann sér virðingu og góðhug allra þeirra, sem henni kyntust.

*F. J.*

## MRS. SVANBJÖRG SIGURÐSSON

Þann 8. júlí síðastliðinn lézt á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg frú Svanbjörg Sigurðsson ekkja Sigurmundar Sigurðssonar fyrrum kaupmanns í Arborg og að Churchill; hún var 72 ára að aldri og hafði átt við þunga van heilsu að stríða síðustu mánuðina; maður hennar lézt 1934.



**Mrs. Svanbjörg Sigurðsson**

Frú Svanbjörg var ættuð úr Dæli í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu og fluttist til þessa lands, er hún var 7 ára gömul; foreldrar hennar voru Sigfús Jónsson og Björg Jónsdóttir, er námu land í Geysisbyggð og nefndu bæ sinn Blómsturvelli. Frú Svanbjörg lætur eftir sig tvo sonu, Pálma og Oscar, sem búsettir eru að Churchill, Manitoba og fimm dætur, Irene McAllan, Mrs. G. Philbin, Mrs. C. Johnson og Mrs. F. Martin, sem allar eiga heima að Churchill, og Mrs. J. Bergman í Winnipeg, auk þriggja stjúpbarna: Páll Sigurðsson og Mrs. M. Gretchen í Winnipeg, og Mrs. S. Torfason í Vancouver; barnabörn frú Svanbjargar eru tuttugu og þrjú; fjögur systkini hennar eru á lífi, Jóhann og Svanberg í Geysisbyggð Mrs. I. Kristinsson, sem einnig á heima í þeirri byggð Miss Rósa Sigfússon til heimilis í Winnipeg.

Frú Svanbjörg var hin mesta dugnaðarkona, og meðan hún dvaldi í Arborg tók hún virkan þátt í Kvenfélagi Árdalssafnaðar.

E.P.J.

